# MINNINGARRIT

um

ÁSMUND PÉTUR JÓHANNSSON
og fyrri konu hans
SIGRÍÐI JÓNASDÓTTUR



EINAR P. JÓNSSON
bjó til prentunar



Útgefendur: Synir þeirra.
Winnipeg, 6. júlí 1954

# EFNISYFIRLIT

## II. FRÚ SIGRÍÐUR JÓHANNSSON:



## III. ÆTTASKRÁR:

# FORMÁLSORÐ

*Það er óþarft með öllu að fylgja minningarriti þessu úr hlaði með löngum formála, því innihald þess skýrir sig sjálft; það er helgað minningu hins stórbrotna athafna- og hugsjónamanns Ásmundar Péturs Jóhannssonar byggingameistara og hinni ágætu fyrri konu hans, frú Sigríði Jónasdóttur. Synir þeirra hjóna, Jónas Valdimar, Kári Wilhelm og Grettir Leo, sem allir eru miklir þegnskaparmenn, töldu minningu sinna merku foreldra bezt borgið í formi hins skráða máls og því ákváðu þeir, að gefa út þetta minningarrit, sem nú kemur hér fram á sjónarsviðið og þeir fólu mér það á hendur, að búa ritið undir prentun.*

*Svo sem að líkum ræður fjallar mikill meirihluti lesmáls um fjölþætt ævistarf Ásmundar, baráttumál hans og sigra, sem voru margir og áhrifamiklir; en innan um nálega alt lesmálið fléttast persónuleiki hans glæsilegu eiginkvenna, er auðsýndu honum ástúð og styrktu hann á alla vegu, hvernig sem viðraði og hvað sem að höndum bar.*

*Margir kunnir áhrifamenn austan hafs og vestan eiga greinar í riti þessu og taka þær af öll tvímæli um það, hvers álits Ásmundur hvarvetna naut, hve mikils hann var virtur sakir framtaks og mannkosta hjá þeim öllum, er áttu með honum lengsta samfylgd og kyntust honum bezt.*

*Ævistarf Ásmundar varð íslenzka þjóðstofninum til varanlegs gróða, og er það hið þarfasta verk, að halda nafni slíkra manna sem lengst á lofti.*

*Í dag, 6. júlí 1954, eru liðin 79 ár frá fæðingu Ásmundar P. Jóhannssonar; sonum hans var ant um að ritið kæmi út á afmælisdaginn og þetta hefir þeim lánast.*

Winnipeg, 6. júlí 1954

*Einar P. Jónsson*



**Ásmundur Pétur Jóhannsson**

Fæddur: 6. júlí 1875
Dáinn: 23. október 1953

*Einar P. Jónsson:*

# Minningarorð um Ásmund P. Jóhannsson

*Að standa eins og foldgnátt fjall*
*í frerum alla stund*
*hve mörg sem á því skruggan skall —*
*sú skyldi karlmanns lund.* —G. Br.

Aðfaranótt föstudagsins 23. október s.l., féll tjaldið við lok síðasta þáttar í ævi eins hins sérstæðasta og aðsópsmesta hetjumennis í leikmannastétt í sögu Íslendinga vestan hafs, Ásmundar P. Jóhannssonar byggingameistara; manns, er í hálfa öld stóð í fylkingarbrjósti þeirra, er þorðu að standa vörð um íslenzkan menningararf í þessari álfu og hvorki töldu eftir sér aukaspor né fjárframlög ef sæmd hins íslenzka kynstofns átti hlut að máli.

Ásmundur P. Jóhannsson sóttist ekki eftir vegtyllum, og margþætt starfsemi hans á vettvangi félagsmála okkar átti ekkert skylt við slíkan hégóma; hann varð forustumaður og harðsnúinn baráttumaður vegna þeirra mála, er hann unni og var sannfærður um, að gera mundu okkur að meiri og betri mönnum; hann átti enga samleið með þeim mönnum, er beint eða óbeint gáfu í skyn, að ræktarsemi okkar við Ísland og íslenzka menningu drægi að einhverju leyti úr hollustu okkar við hin nýju kjörlönd, heldur mundi slíkt miklu fremur verða þeim til góðs; honum var ljóst hvert hann sótti lífsmerg sinn og þrótt, og hann vildi að sem flestum Vestur-Íslendingum skildist það líka hve mikils það væri um vert, að vera kominn af góðum stofni og kunna að færa sér það í nyt.

Þegar til sögunnar kasta kemur, verða það vafalaust

afskipti Ásmundar af þjóðræknismálunum, er halda munu nafni hans lengst á lofti; hann var einn af stofnendum Þjóðræknisfélagsins og féhirðir þess um langt skeið og hann lagði sérstakt kapp á að tryggja fjárhag þess svo sem framast mætti verða; hann vann að stofnun félagsdeilda út um hin ýmissu bygðarlög Íslendinga og varði til tíma og fé; slík ferðalög fengu honum ósegjanlegrar ánægju og lék hann þá við hvern sinn fingur og var manna skemtilegastur ferðafélagi; það var ekkert eins dæmi, að leiðir okkar lægi saman á slíkum ferðalögum, því að einhverju leyti hygg ég að þar hafi hvor annan að nokkru bætt upp.

Ásmundi var það manna ljósast, hver líftaug íslenzku vikublöðin, Lögberg og Heimskringla, höfðu frá upphafi vega sinna reynst á vettvangi þjóðræknismálanna og annarar menningarlegrar viðleitni í dreifbýli Íslendinga hér um slóðir, og þess vegna varð honum órótt innan brjósts, yrði hann þess var, að blöðin væri að veslast upp, eða jafnvel alveg að því komin að gefa upp andann vegna kæruleysis almennings og fjárhagslegrar kreppu; það er ekkert leyndarmál hve Ásmundur brást drengilega og vel við, er Lögberg átti fyrir allmörgum árum svo við raman reip að draga í fjárhagslegum skilningi, að tvísýnt varð um útkomu þess og skoðanir skiptar um bjargráð; lánaði hann þá fyrirtækinu stórfé, jafnframt því sem hann beitti sér fyrir hlutabréfasölu meðal Íslendinga í borg og bygð blaði og prentsmiðju til viðreisnar; í leiðangrum þessarar tegundar vorum við Ásmundur jafnaðarlegast tveir á ferð og var málaleitunum okkar yfir höfuð að tala tekið með ágætum; voru slíkar ferðir í langflestum tilfellum farnar um helgar til að koma í veg fyrir árekstur milli þeirra og daglegra skyldustarfa; þegar alt gekk að óskum varðandi viðreisnarstarfið, minti Ásmundur mig á himinlifandi bátaformenn, sem glöddust yfir uppgripa-afla; en þætti honum róðurinn þyngjast, hverju svo sem um mátti kenna, gat hann orðið þungbúinn og fámáll.

Ásmundur var lítt trúaður á hómópatadropa eða svokallaðar smáskamtalækningar; honum var það fyrir löngu ljóst, að þó orðin séu til alls fyrst, þyrftu athafnir að sigla í kjölfar þeirra, og hann sá fram á það, að ef auðið yrði að tryggja íslenzkri tungu varanlegan og virðulegan sess í Vesturheimi, svo sem með stofnun kenslustóls við Manitobaháskólann, þyrfti einhver að ríða á vaðið með fjárframlög svo um munaði; það varð hlutverk Ásmundar að lyfta Grettistakinu með hinni höfðinglegu gjöf sinni, er nam hvorki meira né minna en fimmtíu þúsund dollurum; enginn nema sá, er ól í brjósti háar hugsjónir og trúaður var á menningarmátt íslenzkrar tungu, hefði ráðist í slíkt. Þegar málstaður Íslands og Íslendinga átti í hlut, var Ásmundur aldrei í neinum vafa um hvaða stefnu skyldi taka; í þeim efnum, eins og raunar í svo mörgum öðrum, var ræktarsemin hans megin áttaviti; það var hjartað, sem sagði fyrir verkum.

Ásmundur var maður glöggskygn og hrapaði sjaldan að nokkru, sem hann tók sér fyrir hendur að framkvæma; hann var vel máli farinn og átti það til að verða mælskur, ef í honum kviknaði; hann var maður kappgjarn og kunni því illa að verða undir hvort heldur var að leik eða við hin stærri viðfangsefni lífsins; og þótt stundum skærist í odda var hann svo sáttfús, að eigi lét hann sólina ganga undir yfir sinni reiði.

Ásmundur ávann sér hvarvetna traust samferðamanna sinna; eigi aðeins innan vébanda íslenzka mannfélagsins, heldur og engu síður utan þess; meðan á fyrri heimsstyrjöldinni stóð skipaði sambandsstjórn hann í nefnd, er það vandasama hlutverk hafði með höndum, að kveða á um undanþágu ungra manna frá herþjónustu vegna aðkallandi framleiðslustarfa heima fyrir; var dómgreind hans og óhlutdrægni í þessu efni viðbrugðið.

Sem dæmi upp á það traust, er Ásmundur naut á vettvangi viðskiptalífsins, þykir hlýða að geta þess, að eitt af

stórblöðum þessa lands, Financial Post, sem gefið er út í Toronto, birti um hann grein, er taldi hann vegna athafna og forsjár meðal fyrirmyndarborgara þjóðfélagsins.

Ekki mun Ásmundur að jafnaði hafa verið ör á loforð, en lofaði hann á annað borð einhverju, stóð það ávalt eins og stafur á bók; hann var fjáraflamaður mikill og að sama skapi góður fjárgæzlumaður; hann var aldrei í neinum vafa um, að auðurinn væri afl þeirra hluta, er koma skyldi í framkvæmd; þetta sannaði hann í verki með framlagi sínu til kenslustólsins svo sem áður var vikið að.

Er til þess kom að stofnað yrði Eimskipafélag Íslands 1913, urðu þar efstir á blaði af hálfu Vestur-Íslendinga þeir Ásmundur og Árni Eggertsson er eigi aðeins lögðu fram stærstu upphæðirnar, heldur ferðuðust jafnframt náttfari og dagfari um nýbygðir Íslendinga vestan hafs til að afla þessu óskabarni íslenzku þjóðarinnar með sölu hlutabréfa fjárhagslegs fylgis; átti Ásmundur sæti í stjórnarnefnd félagsins fram að þeim tíma, er hann féll frá.

Ásmundi féllu ýmissar mannvirðingar í skaut án þess að hann sæktist eftir þeim; honum hlotnaðist Alþingishátíðarmedalían og hann var sæmdur stórriddarakrossi íslenzku Fálkaorðunnar með stjörnu; um þetta þótti honum afarvænt; en ég efast um að um nokkura mannsæmd hafi honum þótt vænna en þá , er Þjóðræknisfélagið, ásamt allmörgum persónulegum vinum utan þess, efndi til veglegrar veizlu honum til sæmdar í tilefni af sjötugsafmæli hans, þar sem heiðursgesturinn var hyltur af þakklátri samferðasveit; þykir mér við eiga, að þau þakkarorð, er hann þá mælti, séu birt hér orðrétt:

„Háttvirti veizlustjóri, kæru vinir!

Vissulega fékk það mér hinnar mestu undrunar þegar forseti Þjóðræknisfélagsins tilkynti mér á mjög formlegan hátt, að Þjóðræknisfélagið og nokkra samstarfsmenn langaði til að eiga með mér kveldstund 6. júlí. Ég sá mér ekki fært að hafna slíku boði, þótt undrun mín færi sívaxandi. Minnist

ég þess, er Dr. Sigurður Nordal heldur fram, „að undrunin sé upphaf allrar vizku". Fúslega verð ég því að viðurkenna það, að undruninni hefi ég haldið, en ekki fundið vizkuna, né heldur átt skilið þau lofsamlegu ummæli, er til mín hafa verið töluð hér í kvöld. Það minnir mig líka á, þótt ólíku sé saman að jafna, er einn af mætustu sonum þjóðar vorrar, Dr. Guðmundur Finnbogason, heimsótti okkur hingað vestur, endur fyrir löngu. Veglegt kveðjusamsæti var Dr. Guðmundi haldið að skilnaði, einmitt á þessum stað; margar ræður voru fluttar honum til maklegs heiðurs; — að lokum stóð Dr. Guðmundur upp og hélt þar eina af sínum ágætu ræðum, er varla geta annað en fest sig í minni manna. Byrjaði hann á því að skýra, hver hefði fundið upp sjónaukann og stjörnukíkirinn og hversu óvenjumikla þýðingu að það hefði haft á sviði vísindanna. En eins bæri þó altaf að gæta, að hlutföllin væru rétt og ekki of sterk, því þá yrði myndin hreinasta skrípamynd. Þess vænti ég þó, að þið, sem mér hafið verið samferða alt upp að 45 árum, kannist við, að hvorki sé ég metorðagjarn né sjálfhælinn. Við hitt vil ég fúslega kannast, að þau málefni, sem þjóðflokk vorn, að mínu áliti, hafa verulega varðað, hefi ég oft sótt með öllu því kappi, sem ég hef átt yfir að ráða.

Af öllum mínum kappsmálum hafa þjóðræknismálin verið mér mestu kappsmálin, og þau verða það framvegis meðan ég enn má mæla. Ég skoða þetta ógleymanlega kvöld miklu fremur minni Þjóðræknisfélagsins en minni sjálfs mín. Þannig átti það líka að vera, því það félag táknar það, sem mér er kærast og hugstæðast á þessari jörð, Ísland og íslenzku þjóðina.

Fyrir hönd konu minnar, sjálfs míns, sona minna og annara náinna vina, endurtek ég þakkir mínar til ykkar allra, og bið ykkur Guðs blessunar í bráð og lengd".

Ásmundur var fæddur hinn 6. júlí 1875 að Haugi í Miðfirði í Vestur-Húnavatnssýslu, kominn af traustum bændaættum; voru foreldrar hans þau Jóhann Ásmundsson

og fyrri kona hans Guðrún Gunnlaugsdóttir hreppstjóra á Efra-Núpi í Miðfirði; ungur að aldri fékk hann sveinsbréf í trésmíði og vann um hríð að smíðum hér og þar um sveitir sýslu sinnar og eins á Blönduósi; hann kvæntist 1899 Sigríði Jónasdóttur bónda á Húki í Vesturárdal og konu hans Helgu Stefánsdóttur; fluttu ungu hjónin vestur um haf aldamótaárið og settust að í Winnipeg og stóð heimili þeirra þar jafnan sínan; fyrstu mánuðina í þessari borg vann Ásmundur að snjómokstri á götum borgarinnar, en áður en langt um leið komst hann að fastri atvinnu við smíðar; upp úr því fór hann að byggja algeng hús fyrir eigin reikning, en síðar mörg og stór fjölbýlishús; gerðist hann brátt í þeirri grein umsvifamikill brautryðjandi; hann þótti listasmiður og varð einnig sjálfum sér nógur sem Arkitekt, er gerði allar teikningar sjálfur að þeim húsum, sem hann reisti; heimili þeirra Ásmundar og frú Sigríðar lá tíðum í þjóðbraut og var þar gestkvæmt að staðaldri; frú Sigríður var gáfuð kona og merk, fyndin í orði og glaðsinna; hún var kona híbýlaprúð og svo tryggur vinur vina sinna, að í þeim efnum verður vart lengra náð; var með þeim hjónum mikið ástríki; allmörg hin síðari ár ævinnar átti frú Sigríður við þungan sjúkdóm að stríða, er hún bar með hetjulund; maður hennar fór með hana vítt um jarðir til læknisaðgerða; stundum fékk hún, að því er virtist, nokkurn bata, en þó eigi til frambúðar; hún lézt hér í borg, svo sem vitað er, árið 1934.

Frú Sigríður heimsótti Ísland ásamt manni sínum þrisvar sinnum, fyrst árið 1913, er öll fjölskyldan dvaldi þar í nokkra mánuði, en síðast 1930 og dvöldu þau hjónin þá heima á ættjörðinni nálega árlangt.

Mörgum sinnum heimsótti Ásmundur Ísland einn síns liðs og dvaldi þá venjulega fyrst nokkra daga í Reykjavík, en lagði síðan af stað norður í fæðingarsveit sína þar sem hann sleit barnaskónum og æskuminningarnar voru bundnar við; til slíkra heimsókna hlakkaði hann eins og barn til jólanna og þaðan kunni hann margar skemtilegar sögur að

segja, er vestur kom. Venjulegast hagaði Ásmundur Íslandsferðum sínum þannig, væri þess á annað borð nokkur kostur, að hann gæti farið í göngurnar; hann var hestamaður góður og var talinn hrókur alls fagnaðar, er í réttirnar kom; í leitunum tóku þátt margir æskufélagar hans og fann hann í því sálubót, að endurnýja við þá kunningsskap; að minsta kosti sagðist honum svo frá sjálfum; úr öllum Íslandsferðum sínum kom Ásmundur með bros á vör og í sólskinsskapi.

Þeim Ásmundi og Sigríði varð þriggja sona auðið, en þeir eru Jónas Valdimar leikhússtjóri að Pine Falls, Kári Vilhelm byggingameistari í Winnipeg og Grettir Leó ræðismaður Íslands og Danmerkur, búsettur í Winnipeg; allir eru þeir bræður gildir þjóðfélagsþegnar og ræktarsamir um íslenzk mannfélagsmál.

Ásmundur var fríður sýnum og prúður í framgöngu; á yngri árum gaf hann sig nokkuð að íþróttum og var talinn rammur að afli.

Við Ásmundur áttum samleið í fjörutíu ár, og reyndist hann mér jafnan sem heillyndur trúnaðarvinur, sem ég á margt og mikið gott upp að unna; enda var hann aldrei eitt í dag og annað á morgun.

Rétt er að þess sé getið hér, að árið 1924 var þeim Ásmundi og frú Sigríði haldið veglegt samsæti í tilefni af silfurbrúðkaupi þeirra þar sem mikið var um ræðuhöld og heiðursgestunum færðar margar gjafir; að þeim fagnaði stóð margt góðtemplara, enda höfðu þau hjón árum saman tekið virkan þátt í bindindisstarfseminni meðal Íslendinga í Winnipeg.

Ásmundur var meðlimur Fyrsta lúterska safnaðar og veitti honum árlega ríflegan fjárstyrk; hann var enginn öfgamaður í trúmálum og varð því víðsýnni, er árin færðust yfir hann.

Árið 1937 kvæntist Ásmundur í annað sinn og gekk þá að eiga Guðrúnu Eiríksdóttur hjúkrunarkonu úr Árnes-

bygð í Nýja-Íslandi, er reyndist honum dyggur förunautur og hjúkraði honum svo, að til ágæta mun jafnan talið verða á löngu tímabili heilsubilunar og rúmfestu síðustu æviárin; með þessu inti hún af hendi ógleymanlega kærleiksþjónustu, er aðstandendur og vinir Ásmundar að makleikum meta og virða.

Í lífsbaráttunni stóð Ásmundur jafnan eins og foldgnátt fjall og dó eins og sigrandi hetja.

Auk frú Guðrúnar og sona sinna þriggja, lætur Ásmundur eftir sig einn bróður, Halldór, búsettan á Hvammstanga í Húnavatnssýslu.

Útför þessa merka manns fór fram á mánudaginn, 26. október, og hófst með húskveðju á hinu fagra Jóhannssonheimili þar sem margir höfðu notið ástúðar og risnu; fluttu þeir Dr. Valdimar J. Eylands og Dr. Rúnólfur Marteinsson þar fögur kveðjumál, en aðalútfararathöfnin var gerð frá Fyrstu lútersku kirkju að viðstöddu miklu fjölmenni; aðalræðuna flutti Dr. Valdimar, en einnig tók þátt í hinni virðulegu kveðjuathöfn Dr. Rúnólfur Marteinsson. — Samúðarskeyti bárust ekkju og sonum hins látna víðsvegar að, en hér verða aðeins nefnd nöfn þeirra, er skeyti sendu frá Íslandi: Forseti Íslands, herra Ásgeir Ásgeirsson; forsætisráðherra Íslands, hr. Ólafur Thors; Dr. Alexander Jóhannesson; Guðmundur Vilhjálmsson (Eimskip), og Ófeigur Ófeigsson læknir.

Heiðurslíkmenn voru: Dr. P. H. T. Thorlakson, Dr. A. H. S. Gillson, Einar P. Jónsson, Gísli Jónsson, Thor Thors sendiherra, Guðmundur Grímsson hæztaréttardómari, Dr. Richard Beck, Peter Anderson og Árni G. Eggertson, Q.C. Kistuna báru: Sveinn Pálmason, Guðmann Levy, G. J. Johnson, W. Bergman, J. T. Beck og Norman S. Bergman.

Jarðsett var í Brookside grafreit, en um undirbúning útfararinnar og framkvæmd annaðist Bardal Funeral Service.

Dr. Valdimar J. Eylands jarðsöng.

*Valdimar J. Eylands:*

# Kveðjumál

I.

## a. Á heimilinu

BÆN:

Himneski faðir. Vér gleðjumst í þeirri fullvissu, að vér megum ávarpa þig sem föður. Eins og litlu börnin hrópa til foreldra sinna, er þau eru hrædd og kvíðandi, þannig áköllum vér þig, þegar oss finnst umhverfið dimmt, og þegar oss er sorg og söknuður í hjarta. Nú er að oss harmur kveðinn við burtför þessa kæra samverkamanns og vinar. Vér eigum margs að minnast, og margt ber oss einnig að þakka á þessum stað og stund. Hér, á þessu glæsilega heimili, höfum vér notið margra ánægjustunda í samfélagi við þennan látna húsföður og fjölskyldu hans. Þú, góði Guð, ert gjafari allra góðra gjafa. Vér þökkum þér alla gæfu og gengi, sem þú veittir þessum látna vini vorum. Þú gafst honum í vöggugjöf merkilegan arf, og mikla hæfileika, sem hann þroskaði með sér um langa ævi, fyrir þína náð. Vér þökkum þér handleiðslu þína í einkalífi hans og athöfnum. Vér þökkum þér fyrir þann mikla kærleika, sem hann fékk að njóta hér í þessu húsi, einkum nú, síðustu misserin. Þótt hann væri lengst ævinnar fremur veitandi en þiggjandi, þurfti hann nú um síðir margt að þiggja af þeim, sem stóðu honum næstir. Vissulega mundi hann nú, mætti hann mæla, þakka frábæra umönnun konu sinnar. Þú gafst henni, Drottinn, mjúka hönd, mikinn kærleika, frábært þrek og þolinmæði, og þessa hæfileika hefir hún notað í þeirri fórnarþjónustu, sem af henni var heimtuð í

umönnun hins sjúka. Synir hans, einnig, sýndu föður sínum meiri nákvæmni, skilning og lipurð, en títt er um karlmenn undir slíkum kringumstæðum. Allir þessir góðu eiginleikar og umönnun ástvinanna, voru gjöf frá þér, himneski faðir, en gæfa hans. En öllu framar þökkum vér þér, Drottinn, fyrir vonarljósið, sem skín yfir gröfum framliðinna, fyrir þá dýrðlegu fullvissu, sem vér eigum fyrir trúna á hinn upprisna frelsara, að eins og hann lifir, svo munum vér og lifa handan við tímans tjald, og að vér munum um síðir aftur fá að njóta samvista við þá, sem vér höfum elskað, og í bili, mist.

Guði séu þakkir, sem gefur oss sigur — yfir gröf og dauða — fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist. —*Amen.*

II.

## b. Í Fyrstu lútersku kirkju

*„Ó, dauði! Hversu kært er kall þitt*
*þeim sem á bágt, og brestur þrótt,*
*þeim sem stirður er fótur og fellur,*
*þeim er örvæntir og finnst fokið í skjólin“.*

—(Síraksbók 41.)

Mér koma þessi orð hins forna spekings í hug, er vér nú stöndum við líkbörur hins látna sæmdarmanns, Ásmundar Péturs Jóhannssonar. Það verður ekki sagt, að andlát hans hafi borið að með óvæntum hætti, því að um tveggja ára bil hafði hann verið með öllu rúmfastur, og tíðum erfitt að merkja hvoru megin líflínunnar hann lá, hvort heldur hann tilheyrði tímanum eða eilífðinni. Hjartað sló að vísu, og öndunarfærin unnu sitt tilætlaða verk, en andinn var oft víðsvegar fjarri stund og stað. En líkaminn var óvenjulega sterkbyggður, virtist hann halda anda þessa manns hörðum höndum, eins og hann vildi segja: Ég sleppi

þér ekki. Á hinum mörgu svifflugferðum, sem andinn fór frá hinum hrörlega og hnignandi líkama, lyfti hann sér um víða vegu, en oftast þó heim til Íslands, þar sem vagga hans stóð, heim á Miðfjörðinn, upp um fjöll og firnindi, þar sem hann hafði slitið skóm æskuáranna, eða hann var mitt á meðal kunningja og viðskiptavina í Reykjavík, eða Winnipeg. En þótt andi hans væri að nokkru leyti bundinn við líkamann og hin gömlu athafnasvið, var hann þó einnig í öðrum heimi, og einkennilega næmur fyrir áhrifum þaðan. Aftur og aftur kom það fyrir í hinni löngu legu hans, að hann sagði frá andláti vina sinna, bæði á Íslandi og hér vestra, áður en nokkrum öðrum en nánustu ástvinum þeirra var kunnugt um að þeir væri horfnir af sviði þessa lífs. Þetta fyrirbrigði getur hver og einn skilið og skýrt eftir vild. Hvað mig snertir er það enn einn ljós vottur þess, að til er vitundarlíf, sem undir venjulegum kringumstæðum er fyrir utan skynheim okkar mannanna, og einnig, að anda sem unnast fær aldrei eilífð aðskilið, en að þeir færast nær hvor öðrum, þegar út að landamæralínunni er komið, eða yfir hana.

Texti minn talar um, að dauðinn sé kærkominn þeim, sem eru stirðir og fótfúnir, þróttlausir og örvæntingarfullir. Ásmundur var hinn mesti kjarkmaður, og vissi ekki hvað það var að örvænta. Hann var einnig óvenjulegt hraustmenni og harðgerður, enda alinn upp við þau kjör og lífsskilyrði, sem skila hraustum sonum, ef þau skila þeim á annað borð út í lífsbaráttuna. Hann var gæddur víkingslund til orða og verka, og til skamms tíma hefði hann vafalaust viljað taka undir með skáldinu norðlenzka, sem sagði: „Ljót mér þótti lengi gröf, og löðurmennska að deyja“, en svo varð skáldið að bæta við í ellinni: „Nú er hún orðin guðleg gjöf; gefst þar róleg hvíldartöf, öllum þeim, sem eftir frelsi þreyja“. Þannig fer að lokum fyrir oss öllum, ef árin endast; dauðinn verður oss að lokum kærkominn, leiðin til hvíldar og frelsis.

En Ásmundur var gæfumaður að því leyti, að hann naut hreysti sinnar, líkamlegs og andlegs atgervis um langa ævi; á yngri árum var hann íþróttamaður og glíminn í bezta lagi. Mér er sagt að hann hafi komið til Winnipeg 2. ágúst árið 1900, snemma dags, og að síðdegis sama dag, hafi hann sótt samkomu Íslendingadagsins, og glímt þar við menn. Þetta virðist mér táknrænt um manninn, eins konar spádómur um athafnir hans í íslenzkum félagsmálum, og hreysti hans og harðfylgi. Þessi íslenzki sveitamaður átti eftir að koma víða við sögu Íslendinga, og það átti líka fyrir honum að liggja að heyja margvísleg kapphlaup og bjóða viðfangsefnum lífsins í glímu. Í öllum þessum viðskiptum var hann áhugamikill og merkilega sigursæll. Eins og kunnugt er, varð hann einhver mesti fjáraflamaður með Íslendingum. Ýmsum þótti hann harðdrægur í samningum og viðskiptum, en engan hefi ég fyrirhitt, sem í alvöru hefir grunað hann um græzku. Kappsamur var hann að vísu, það svo, að mörgum daufgerðari mönnum þótti nóg um, en strangheiðarlegur var hann og höfðingi í lund. Höfðingsskapur hans og örlæti við þá málstaði, sem hann unni og hafði trú á, er fyrir löngu á allra vitorði. Merkur maður, nú nýlátinn, sagði eitt sinn: „Það er mikið spursmál, hvort nokkur maður getur nokkurn tíma flutzt að fullu og öllu frá ættlandi sínu og þjóð". Ásmundur fluttist aldrei að fullu og öllu frá Íslandi. Að vísu var hann ágætur borgari í Canada, eins og viðurkennt var, t. d. með því að skipa hann í dómnefnd, á fyrri stríðsárunum, til að skera úr því hverjir skyldi undanþegnir herþjónustu og hverjir ekki. En hugurinn var ávalt nátengdur ættlandi hans og stofnþjóð. Þangað fór hann fjölmargar ferðir, og á sviði íslenzkra félagsmála austan hafs og vestan, lágu þau áhugamál hans, sem honum voru hjartfólgnust. Á sviði íslenzkra þjóðþrifamála hefir hann reist sér minnisvarða, sem lengi mun varðveita nafn hans frá gleymsku.

Þegar undirbúningur var hafinn að stofnun Eimskipafélags Íslands, varð Ásmundur strax einn af forgöngumönnum þeirrar hreyfingar hér vestra. Mun hann hafa verið staddur á stofnfundi félagsins í Reykjavík, og starfaði síðan í stjórnarnefnd þess um 36 ára skeið. Lagði hann fram mikið fé frá sjálfum sér til þessa fyrirtækis, og seldi auk þess hlutabréf hér vestra til arðs fyrir félagið, með þeim dugnaði sem honum var laginn. Einnig lagði hann fé í aðrar stofnanir á Íslandi, svo sem spítala og líknarfélög. Er það löngu viðurkennt á Íslandi, að Ásmundur var ekki aðeins mikill ættjarðarvinur, heldur og stórvirkur og örlátur athafnamaður, sem vildi í öllu sjá sóma ættlands síns og þjóðar. Árið 1939 vottaði ríkisstjórn Íslands honum þakkir sínar með því að sæma hann því veglegasta heiðursmerki, sem, samkvæmt lögum, er unt að veita manni, sem er borgari annars ríkis, en það er Stórriddarakross hinnar íslenzku Fálkaorðu, með stjörnu.

Þá var hann ekki síður þarfur málum vorum hér vestra. Hann var einn af stofnendum Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, og sat í stjórnarnefnd þess æ síðan meðan heilsan leyfði, lengst sem féhirðir. Hann lagði á sig ferðalög og margvíslegt erfiði í sambandi við útbreiðslu- og fræðslumál félagsins, og var oft ör á fé, og ávalt tillögugóður í sambandi við öll mál, er félaginu horfðu til heilla.

Öllum er fyrir löngu kunnugt um hina rausnarlegu gjöf hans, $50.000.00, til stofnunar kennarastóls í íslenzku við Háskóla Manitobafylkis. En það var þessi gjöf, og það dæmi sem hún skapaði, sem fyrir alvöru hrinti því máli af stokkunum og leiddi það fram til sigurs. Hefði ekki gjöf Ásmundur komið til, væri vísast enginn íslenzkur kennarastóll hér til, og þetta mikilsverða mál væri enn aðeins draumsjón og hylling. Þá lét hann sér mjög ant um vikublaðið „Lögberg", og studdi lengi að útgáfu þess með ráðum og dáð.

Sem kirkjumaður lét Ásmundur aldrei mikið til sín taka, svo á bæri, en einnig þar var hann traustur. Til eru

þeir menn, sem hafa látið í veðri vaka við mig og aðra, að þessi kirkjubygging, sem við erum nú í, hafi komizt í eigu þessa safnaðar með undarlegum og óviðkunnanlegum hætti. Hjálmar heitinn Bergman, yfirdómari, sagði þá sögu eins og hún gekk til í erindi sem hann flutti hér í kirkjunni fyrir nokkrum árum. Sú saga var í fáum orðum á þá leið, að nokkrum árum eftir dauða hins mæta manns, séra Friðriks Bergman, var kirkjueignin komin í hendur lánsfélagsins, sem hafði lánað fé til að reisa hana í fyrstu, og félagið bauð hana til kaups þeim, er fyrst legði fram greiðslu fyrir þá skuld, sem á henni hvíldi. Enginn tími var til að halda safnaðarfund, svo að þeir dr. Brandson og Ásmundur komu sér saman um að kaupa kirkjuna, þannig að dr. Brandson var hinn formlegi kaupandi, en Ásmundur lagði fram féð, sem nam allmörgum þúsundum dollara. „Hefðu þessir menn ekki brugðizt þannig við þessu máli, hefði þessi kirkjueign tapast þessum söfnuði. Tel ég, að Dr. Brandson og Mr. Jóhannsson hafi þannig bjargað framtíð þessa safnaðar", segir Bergman dómari. Auðvitað fékk Ásmundur þetta fé endurgreitt, smátt og smátt, en lengi mun það hafa dregist, að allt kæmi til baka, og litla vexti eða enga mun hann hafa þegið. Er það því einkar tilhlýðilegt, að hinztu kveðjuorðin séu töluð yfir þessum manni hér í þessu húsi, sem segja má, að eitt sinn hafi verið hans persónulega eign, og sem hann líka studdi ávalt síðar með dáðum og dæmi.

Ég get um þessi fjármál alveg kinnroðalaust, vegna þess að þau sýna vel, hvað með manninum bjó, og hversu hann var innrættur. Þegar menn komast yfir peninga sýna þeir oft betur en ella, hver þeirra innri maður er. Ásmundur hafði þekkt sára fátækt, það svo, að fyrsta veturinn hér vann hann við snjómokstur á strætum borgarinnar, sem þótti ekki þá, fremur en nú, sérstaklega virðuleg atvinna. En með frábærri elju, framsýni og heiðarlegum viðskiptum, sem vöktu honum traust, komst hann yfir mikið fé. Í aðra röndina hélt hann mjög fast um það, og var fyrir það bæði

misskilinn og öfundaður, eins og gengur. Hins vegar var hann mjög örlátur og gaf höfðinglega, þegar hann trúði því að gjöfin mundi verða góðum málstað til sigurs.

Ásmundur var gæfumaður, ekki aðeins í athafnalífi sínu og viðskiptum, heldur einnig í einkalífi sínu. 9. júní 1899 kvæntist hann Sigríði Jónasdóttur Guðmundssonar frá Húki í heimasveit sinni; áttu þau farsæla framtíð unz hún lézt, 1. okt. 1934. Eignuðust þau þrjá sonu, sem allir eru hér staddir: Jónas Valdimar, leikhússtjóri í Pine Falls, Kári Vilhelm, byggingameistari hér í borginni, og Grettir Leó, forstjóri og ræðismaður Íslands og Danmerkur í Sléttufylkjunum hér í Canada. Árið 1937 gekk hann að eiga síðari konu sína, Guðrúnu Eiríksdóttur, hjúkrunarkonu frá Álftárbakka í Mýrasýslu, sem lifir hann. Skömmu síðar fór heilsu hans að higna, en kona hans stóð við hlið hans með hinni mestu prýði, og nú síðustu árin eftir að heilsu hans tók að hraka æ meir, hefir ástundun hennar við hinn sjúka eiginmann verið þannig, að sanna aðdáun hefir vakið öllum þeim, sem til þekkja. Synir hans einnig sýndu honum mikla sonarást og nákvæmni, og veittu honum margvíslega umönnun, sem er næsta fágæt með karlmönnum. Heimilið er, eins og allir vita, eitt hið prýðilegasta hér í borginni, og heimilisbragurinn allur eftir því. Þar var íslenzk gestrisni, eins og bezt verður ákosið, enda gestkvæmt mjög hjá hinum íslenzka sveitarhöfðingja, sem fyrir rás örlaganna var orðinn efnamaður í erlendri stórborg, og viðurkenndur leiðtogi fólks síns í ýmsum efnum á þessum slóðum.

Ásmundur var fæddur að Haugi í Miðfirði, 6. júlí 1875, sonur Jóhanns Ásmundssonar bónda þar og Guðlaugar Gunnlaugsdóttur konu hans. Hann ólst upp í heimasveit sinni, og lagði ungur stund á tré- og járnsmíðanám. Þetta nám kom honum að góðu haldi, er hann kom til þessa nýja lands, sem var að byggjast. Lengst ævi sinnar lagði hann stund á byggingar og fasteignaverzlun. Auk konunnar og sonanna, sem áður eru nefndir, lætur hann eftir sig, sonar-

dóttur og sonarson, Lorraine og Albert Pétur. Hann andaðist á föstudagsmorguninn 23. þ. m., 78 ára að aldri.

Vér þökkum honum fyrir samfylgdina, samstarfið og allt gott og segjum:

*„Flýt þér vinur í fegri heim!*
*Krjúptu að fótum friðarboðans.*
*Fljúgðu á vængjum morgunroðans. —*
*Meira að starfa Guðs um geim“.*

*Rúnólfur Marteinsson:*

# Húskveðja

*flutt við útför ÁSMUNDAR P. JÓHANNSONAR að 910 Palmerston Ave., Winnipeg*

Vér erum komin saman á kveðjustund. Slíkar stundir minna á hið liðna, og hverfur hugurinn eðlilega að því, sem manni finst sérkennilegt og áhrifamikið í fari þess, sem kveður. Í lífsstarfi Ásmundar Jóhannssonar sjáum vér frábæran dugnað og hagsýni með afbrigðum; en vér sjáum þar einnig afl, sem er æðra eðlis, andlegt afl, sem Guðs blessaða orð setur á hátt stig. Þrettándi kapítulinn í fyrra bréfi Páls postula til Korintumanna er í óbundnu, vanalegu máli, en sá kapítuli er samt, í raun og veru, hið fegursta ljóð um hinn guðdómlega mátt kærleikans, sem til er í bókmentum mannkynsins. Síðustu orðin eru þessi: „En nú varir trú, von og kærleikur, en þeirra er kærleikurinn mestur.“

Hann er kominn frá Guði, og Guð vill gefa hann öllum.

Í einlægni og auðmýkt viljum vér hugsa um kærleikann á þessari kveðjustund og samband hans við þennan vin, sem nú er að kveðja.

Annar maður segir ævisöguna í heild, en ég vil leitast við að athuga það, sem réttilega tilheyrir kveðju.

Ásmundur Pétur Jóhannsson fæddist í Miðfirði í Húnavatnssýslu á Íslandi. Þar ólst hann upp, bjó sig undir lífið og varð húsasmiður. Á ungum aldri kvæntist hann Sigríði Jónasdóttur. Þau bjuggu stutt þar í landi, en fluttust til Canada árið 1900 og settust að í Winnipeg, og hér var heimili þeirra það sem eftir var ævi.

Til að byrja með var hann framandi maður í þessu landi og mállaus á tungu þessa lands. Sannarlega var sú afstaða ekki laus við erfiðleika, en hann sparaði enga áreynslu til þess að mæta þeim í Drottins nafni eins og dugandi maður. Hann varð byggingamaður. Í því starfi notaðist honum vel hugur og hönd, svo að hann eignaðist bæði þroska og tækni. Atvinnulíf hans varð frábærlega farsælt og veitti honum ánægju og árangur. Að því kom, að hann varð stóreignamaður.

En bæði í fátækt og velmegun var heimilið honum dýrmætt. Lengi áttu þau hjónin heima á Victor stræti. Þar fæddust þeim þrír synir: Jónas Valdimar, Kári Vilhelm og Grettir Leó. Samband hjónanna og einnig foreldra og barna var unaðslega kærleiksríkt. Ásmundur veitti ástvinum sínum það sem þeim var nauðsynlegt til líkamlegrar vellíðunar, og engu síður allan þann kærleika, sem fóstraði fallegt hugarfar og rétta afstöðu til lífsins. Og Guð var í þessum kærleika til þess að þroska hina sönnu velferð hjá öllum ástvinahópnum.

Eftir mörg ár á Victor St. reisti Ásmundur nýtt heimili á Agnes St., og eftir nokkur ár þar bygði hann sér og sínum fagurt heimili að 910 Palmerston Ave.

Þótt ástvinirnir væru innilega sameinaðir á heimilinu, er gott að minnast þess, að kærleikurinn var hvorki eigingjörn eign þeirra, sem þar áttu heima, né heldur var hann lokaður innan húsveggja. Á heimilinu var mikið af gestrisni, margir sem þangað komu og mikið af gæðum, sem þeim var látið í té. Sömuleiðis er það rétt, að út frá kærleika þessa heimilis streymdu bæði áhrif og framkvæmdir, sem fluttu út í mannlífið frábærlega mikið af gæðum.

Vil ég nú nefna sumt af því, sem hér kemur til greina.

Ásmundur var meðlimur í Fyrsta lúterska söfnuði. Hann sótti vel guðsþjónustur og starfaði ágætlega að heill safnaðarins.

Ísland elskaði hann af heilu hjarta, ferðaðist þangað alloft, lagði mikið í sölurnar fyrir Eimskipafélag þess. Ástvinum sínum, öllum hinum nánustu, gaf hann ferðir til Íslands. Á sama hátt var hann unnandi öllu nytsömu viðhaldi íslenzku arfleifðarinnar hér í landi. Í tryggingarsjóð íslenzkukenslunnar við háskólann í Manitoba gaf hann $50.000, sem er langt fyrir ofan það, sem nokkur annar maður gaf.

Árið 1934 varð hann fyrir þeirri sáru sorg að missa blessaða konuna sína, sem honum var svo hjartfólgin. Í einstæðingsskapnum veittu börn hans, tengdabörn og síðar einnig barnabörn þá hjálp, sem þeim var unt að veita.

Árið 1937 kvæntist Ásmundur í annað sinn. Hann giftist Guðrúnu Eiríksdóttur, sem lengi hafði starfað að hjúkrun. Giftingin fór fram á heimilinu. Enginn annar staður var betur til þess valinn. Þetta var heimilið hans, og þetta varð heimili þeirra beggja. Einnig hjónabandið, sem þarna var stofnað til, var yndislega fagurt. Sterk kærleiksbönd beggja gjörðu líf þeirra unaðslegt, með fórnfýsi og miklum gæðum á báðar hliðar.

Eftir nokkurra ára unaðshag fór heilsa Ásmundar því miður að bila, og að því kom, að hann lagðist rúmfastur, og svo yfirgnæfandi var sjúkdómurinn, sem þjáði hann, að hann virtist nær dauða en lífi. Mikinn hluta tímans leit út fyrir, að hann vissi ekkert af sér. Hálft þriðja ár var hann í því ástandi. Synir hans, sem áttu heima hér í bænum, þeir Kári og Grettir, lögðu fram mikla hjálp til aðstoðar í þessum erfiðleikum, en aðalhjúkrunina framkvæmdi konan hans, og hún gjörði það með þvílíkri snild og hjartaprýði, að á betra varð ekki kosið. Alt sem hún lagði á sig í þessari hjúkrun fanst henni með öllu móti sjálfsagt. Kærleikurinn þar þekti enga hindrun. „Hann var svo góður við mig“, voru orð hennar.

Þegar dauðinn sýndist vera í aðsigi voru allir synir hans, að meðtöldum Jónasi Valdimar, sem býr í Pine Falls,

viðstaddir og skiptu með sér verkum, ásamt konunni hans, sem altaf var við hendina. Þetta var eins gott og það gat verið. Hann, sem hafði auðsýnt ástvinum sínum svo frábæran kærleika naut mikils ástríkis og dásamlegrar aðstoðar hjá þeim, ekki sízt þegar í nauðirnar rak. Kærleikurinn ávinnur kærleika.

Ég sagði, að þennan langa legutíma hefði vinur vor verið nær dauða en lífi. Á því er nokkur undantekning. Inn í myrkur dofans virtist stundum koma glampandi ljósgeislar meðvitundar og þekkingar. Hann ekki einungis átti tal við konuna sína heldur flutti henni einnig undraverðan boðskap. Hann sagði henni frá viðburðum, sem enginn vissi, að hann hefði nokkra vitneskju um, sagði henni t. d. frá dauðsföllum, sem engin mannleg vera gat hafa sagt honum frá. Í öllum tilfellum fluttu þessir ljósgeislar sannleikann. Í þessu virðist æðri heimur hafa opnað fyrir honum dyr.

Vér skulum öll snúa oss til Guðs og biðja:

*„Verði ljós, vermandi ljós*
*hjarta í hvers eins manns.*
*Eyði það kvíða en efli þar frið,*
*unun og gleði minn lausnara við.*
*Lýsi mér lífsorðið hans.“*

Lifi kærleikurinn, kærleikur Guðs, kærleikur Jesú Krists hjá öllum ástvinum þessa kærleiksríka manns, já, hjá öllum mönnum til eilífðar. —Amen.

*Thor Thors:*

# Ásmundur P. Jóhannsson

*Traustir skulu hornsteinar hárra sala*

Fáa menn hefi ég þekkt traustari í hvívetna en Ásmund P. Jóhannsson. Þessi eiginleiki hans mun hafa ráðið því, að hinum unga manni, sem hingað kom, ásamt brúður sinni, til þessarar miklu heimsálfu með enga aðra fjársjóði en hagleik sinn og hyggindi, tókst að reisa af grunni ótal marga sali og að búa sjálfur í háum sölum velmegunar og afreka.

Hann var líka mesta tryggðatröll, trúr öllu góðu, sem honum þótti vænt um eða jafnvel mat einhvers. Trúr hugsjónum sínum, trúr í starfi, trúr Fjallkonunni, sem hann unni allt sitt líf, trúr sinni nýju fósturjörð.

Ást Ásmundar P. Jóhannssonar til Fjallkonunnar lýsti sér meðal annars í hinum tíðu ferðum hans til Íslands. Það lýsir einnig hugarfari hans fagurlega, að ekki lét hann sér nægja að fara einn, eða með konu sinni einni, á fornar slóðir. Hann vildi einnig að synir hans þrír, sem allir eru bornir og barnfæddir hér vestan hafs, skyldu kynnast feðranna grund og fólki þeirra af eigin sýn og reynd. Þess vegna tók Ásmundur synina með sér heim til Fróns, ýmist alla í senn, eða hvern fyrir sig.

Ásmundur bjó um rúmlega 50 ára skeið í Winnipeg. Á þessu tímabili fór hann tíu ferðir til Íslands. Það sýnir glögglega hvert hugurinn stefndi. Það var á þessum ferðum, sem ég fyrst átti því láni að fagna að kynnast Ásmundi, þó ekki fyrr en í þriðju ferð hans árið 1921. Kynni okkar voru þó ekki mikil og heldur yfirborðskennd framan af.

Ég minnist þess að hann kom, að ég hygg, í hverri ferð hans að heimsækja foreldra mína. Höfðu þau ætíð mikla ánægju af að sjá Ásmund á heimili þeirra. Faðir minn og Ásmundur höfðu um margt að spjalla, og fór hið bezta á með þeim. Það var í slíkri heimsókn, sem ég sá Ásmund í fyrsta sinn. Mér fannst maðurinn, þegar við fyrstu sýn, höfðinglegur og dugnaðarlegur í senn, glæsimenni og góðmenni. Þetta álit mitt á Ásmundi breyttist aldrei. Mér fannst einnig þá, er ég var ungur námsmaður, að um Ásmund léki einhver æfintýraljómi. Það gengu sögur um það, að hann væri ofsaríkur, og ætti stórkostlegar eignir í Ameríku. Þá fannst mér Ameríka hljóta að vera einhver undraheimur, líklega hinumegin við Himnaríki, og mig langaði til að skygnast undir Undratjaldið, fara þangað og verða ríkur og mikill maður eins og Ásmundur.

Kynni mín af Ásmundi héldu áfram í síðari heimsóknum hans til Íslands. Alltaf hafði ég sömu aðdáun á honum, þótt hugmyndir mínar um Ameríku breyttust og tækju á sig form veruleikans og nokkurrar þekkingar. En æfintýraljóminn hvarf aldrei. Það er og verður ætíð æfintýri, þegar ungur maður með enga aðra veraldlega sjóði en tvær gjörvar hendur, markar sér lífsferil mikilla efna, mikils trausts og gnægra mannvirðinga. Æfintýrið ljómar enn meir, þegar þess er gætt, að hinn ungi maður kom úr fámennri og einangraðri sveit norður við heimskautsbaug, en settist að í mannfjölda við hörðustu samkeppni. Lok æfintýrsins voru mikill sigur. Enginn skyldi halda, að sá sigur hafi verið auðunninn. Aðeins hörð barátta, stöðug árvekni, sífeld vinna og stríð, hugkvæmni, kjarkur og harðfylgi gátu fært Ásmundi þennan sigur. Hann var vel að sigrinum kominn.

Það var árið 1939, er kona mín og ég vorum í heimsókn meðal Vestur-Íslendinga, að kynni okkar Ásmundar gerðust nánust. Það var ekki við annað komandi, en að við gistum á hinu veglega heimili Ásmundar og hans ágætu konu, frú

Guðrúnar. Ásmundur hafði ákveðið þetta og lítið þýddi að ætla sér að breyta því, sem Ásmundur eitt sinn hafði ákveðið. Við dvöldum því á aðra viku á þessu vingjarnlega heimili. Þá gafst mér kostur á að kynnast Ásmundi betur en á öllum undanförnum árum. Það var unun að sitja með honum og heyra hann lýsa með mikilli frásagnargleði þáttum úr hans merku og viðburðaríku æfi. Þegar kom að Íslandsferðunum eða æskuendurminningunum að heiman, var eins og hann ljómaði, og lyftist upp og mælskan greip hann. Það var næstum eins og hann hefði hvergi lifað nema heima á Fróni.

Við nutum mikillar gestrisni á heimili þeirra hjóna, og það bezta var, að við máttum vera eins og heima hjá okkur, og urðum það þegar fyrsta daginn. Þó þurfti Ásmundur að beita húsbóndavaldi sínu yfir mér. Ég átti að halda ræður og fyrirlestra víðsvegar um byggðir Íslendinga og hafði ekki fyllilega lokið undirbúningi. Frá þessu skýrði ég Ásmundi og bað um næði, og að mega vera einn að verki. Þá fór Ásmundur með mig niður í kjallara húss síns, þar sem var vistleg stofa. Þegar Ásmundur var að láta aftur hurðina og fara út sagði hann við mig: „Þetta er svartholið og hér átt þú að dúsa“ Hann setti upp fangavarðarsvip, sem var einskonar sambland af meðaumkun og hörku og hvarf á brott. Ég lauk síðan störfum mínum á nokkrum klukkustundum. En síðan var Ásmundur oft að hóta með svartholinu. Það var ekki fyrr en við höfðum verið saman á nokkrum samkomum, að hann sagði við mig: „Jæja, ég held að ég sleppi þér nú við svartholið“.

Vorið 1940 bauð Eimskipafélag Íslands þeim Ásmundi og Guðrúnu konu hans til Íslands, ásamt hinum síglaða og reifa Árna Eggertssyni hinum eldra og konu hans. Þeir voru báðir fulltrúar Vestur-Íslendinga í stjórn Eimskipafélagsins og höfðu verið um langt árabil. Það þótti vera sem óskrifuð lög, að þeir Ásmundur og Árni væru sjálfkjörnir til þessarar vegsemdar, og að engir aðrir kæmu til

greina nema þeir eða þeirra ættmenn beggja. Með þeim kom einnig til landsins hinn snjalli Gunnar Björnsson, skattstjóri frá Minneapolis og hans ágæta kona. Þau voru öll miklir aufúsugestir, og allir vildu taka þeim opnum örmum.

Þjóðræknisfélag hafði verið stofnað í Reykjavík veturinn áður til þess aðallega að halda uppi sambandi við Vestur-Íslendinga og þeirra Þjóðræknisfélag. Þar sem svo vildi til að ég átti að heita formaður þessa félags, féll það auðvitað í minn hlut að vera í nánu sambandi við alla þessa elskulegu gesti og fylgjast með ferðum þeirra.

Ásmundur kom þá nokkrum sinnum á heimili okkar. Alltaf var hann jafn hress og kátur og innilega ánægður og þakklátur fyrir þær móttökur, sem hann fékk hvarvetna, hjá heimbjóðendunum Eimskipafélaginu, hjá stjórnarvöldum og á hverju því heimili, sem hann kom, og hvern sem hann hitti að máli. En engin Íslandsferð var fullkomnuð nema hann vitjaði átthaga sinna norður í Húnavatnssýslu.

Síðan bar fundum okkar Ásmundar saman nokkrum sinnum, er ég var í heimsóknum í Winnipeg. Í síðasta sinn sá ég hann í Winnipeg árið 1949 á þjóðræknisþingi. Þá var hann mjög farinn að heilsu, riðaði af veikleika og átti erfitt með gang. Það var þá augljóst hvert stefndi. En hann var andlega hress, og á þjóðræknisþingi varð hann að mæta og láta til sín heyra til áhrifa á sín hjartans mál. Mest þeirra var verndun íslenzkrar tungu meðal Vestur-Íslendinga. Ásmundur unni hinu ástkæra ylhýra máli og hann vissi það, sá og skildi, að tungan geymir í tímans straumi trú og vonir landsins sona. Það varð því eitt af síðustu verkum Ásmundar að beita sér af alefli fyrir stofnun kennarastóls í íslenzkum fræðum við háskólann í Manitoba. Tilgangurinn var að sjálfsögðu sá að gjöra veg íslenzkrar tungu sem mestan, skipa henni við hlið heimsmálanna og fornmálanna, og að opna andlegar auðslindir þeirrar tungu, sem logar af hreysti og verið hefir þjóð vorri guðleg móðir, öllum þeim,

sem þessara andlegu gæða vildu njóta. Við Manitoba-háskóla skyldi vera miðstöð íslenzkra fræða. Ennfremur var þess vænzt, að frá þeim íslenzka manni, er kennarastólinn skipaði, skyldu renna straumar þjóðrækni og áhuga um byggðir Íslendinga. Sú hefir líka raunin orðið. Til þessa alls gaf Ásmundur þá stærstu gjöf, sem nokkur Íslendingur mun nokkru sinni hafa gefið, fimmtíu þúsundir dala. Það mun hafa kostað mörg handtök á frumbýlingsárunum að afla þeirra.

Þegar ég sá Ásmund síðast árið 1949, hélt ég að hann ætti ekki langt eftir ólifað. En kempan taldi sig ekki ferðbúinn, ekki hafa lokið störfum hérna megin lífsins. Hann bauð því sjálfum dauðanum byrginn, eins og hann hafði boðið svo mörgum mönnum. En 23. október 1953, flutti hann sig búferlum, og fæst nú eflaust við að smíða og reisa eitthvað það sem fagurt er.

Allt hans líf hér á jörðu, á Íslandi og í Vesturheimi, var hann að smíða og reisa af grunni. En þó hann vissi það ekki sjálfur, þá var hann ætíð með sínu líferni að reisa sjálfum sér minnisvarða. Sá minnisvarði vottar um dugnað, árvekni, starfsþrek, skyldurækni, hyggindi, hugkvæmni, heiðarleik og höfðingsskap. Þess vegna drúpum við höfði í virðingu við þennan minnisvarða. Ásmundur P. Jóhannsson var öðrum mönnum mikil fyrirmynd, og sú mynd mun lifa öðrum til hvatningar og framsækni.

Íslenzka þjóðin mun ætíð standa í mikilli þakkarskuld við Ásmund P. Jóhannsson.

*Sigurður Jónasson:*

# Ásmundur P. Jóhannsson

Síðastliðinn 23. október andaðist í Winnipeg Ásmundur P. Jóhannsson. Var hann einn af merkustu Íslendingum vestan hafs. Ásmundur var fæddur 6. júlí 1875 að Haugi í Vestur-Húnavatnssýslu, sonur Jóhanns Ásmundssonar bónda þar og fyrri konu hans Guðrúnar Gunnlaugsdóttur hreppstjóra á Efra-Núpi í Miðfirði.

Tvítugur lauk Ásmundur trésmíðanámi og fékkst um skeið við smíðar á ýmsum stöðum í Húnavatnssýslu og átti m. a. heima á Blönduósi. Eitt sumar dvaldi Ásmundur við smíðar hjá Þorláki bónda í Vesturhópshólum og kynntist þá Jóni Þorlákssyni síðar ráðherra, og hélst með þeim góð vinátta æ síðan. Jón sagði mér að Ásmundur hefði þá þegar rúmlega tvítugur að aldri verið álitinn harðduglegur maður og notið mikils trausts þeirra, er hann þekktu.

Árið 1899 kvæntist Ásmundur Sigríði dóttur Jónasar bónda Guðmundssonar á Húki í Vesturárdal og konu hans Helgu Stefánssdóttur. Sigríður var ágætiskona, prýðilega gáfuð, eins og hún átti ætt til, glaðlynd og hafði, eins og Ásmundur óbilandi starfsþrek, þar til sjúkdómur lamaði það á síðustu árum ævi hennar. Þau hjón eignuðust 3 syni, Jónas Walter, Kára Wilhelm og Gretti Leó, sem allir eru myndar menn. Grettir er, svo sem kunnugt er, ræðismaður Íslendinga og Dana í Winnipeg og hefir leyst það starf mjög vel af hendi. Sigríður kom þrisvar sinnum heim til Íslands með manni sínum og dvöldu þau hjónin hér á landi nærri heilt ár 1930.

Á uppvaxtarárum Ásmundar lifði alþýða manna í Húnavatnssýslu ekki við nein sældarkjör. 1882—'90 voru harðindaár og fóru þá margir úr sveitum norðanlands vestur um haf.

Hinum framtakssama unga manni mun ekki hafa sýnzt vera miklir möguleikar til að neyta sinna miklu krafta hér á landi eins og þá stóðu sakir og fluttist því til Kanada árið 1900. Heldur var köld aðkoma fyrir landnemana þegar vestur kom. Fyrsta veturinn fékk Ásmundur aðallega vinnu við snjómokstur en brátt komst hann í vinnu við byggingar og sýndi þar svo mikinn dugnað að hann fékk fasta vinnu og fór síðan að vinna á eigin reikning og gerðist athafnamikill byggingameistari í Winnipeg. Árið 1907 kom Ásmundur fyrst heim til Íslands og var þá orðinn sæmilega stæður maður fjárhagslega. Þegar Ásmundur kom heim aftur árið 1913, og tók þá meðal annars myndarlegan þátt í stofnun Eimskipafélags Íslands, var hann talinn vera orðinn mjög vel fjáður maður. Hafði Ásmundur því á rúmlega 12 árum aflað sér bæði fjár og frama í fjarlægu landi og kunnu þau hjón þó varla orð í málinu þegar þau komu fyrst til Winnipeg. Var það mikil þrekraun, sem þau stóðust vel. En Ásmundur var ekki eingöngu góður fjáraflamaður, heldur var hann einnig góður fjárgæzlumaður. Margir Vestur-Íslendingar höfðu á ýmsum tímum grætt mikið fé, en þeim hélzt ekki ávallt jafn vel á fénu eins og þeir höfðu verið duglegir að afla þess. En hagur Ásmundar mun hafa eflzt jafnt og þétt meðan hann hafði heila og óskerta starfskrafta.

Ásmundur var góðum gáfum gæddur, fríður sýnum, rúmlega meðalmaður á hæð, þéttvaxinn, enda rammur að afli á yngri árum. Ásmundur elskaði Ísland og íslenzk þjóðræknismál voru honum hjartfólgin. Vann hann þrotlaust að þeim málum vestan hafs og var óspar á fjárframlög til félagsstarfsemi, blaðaútgáfu og annarra þjóðræknismála Íslendinga vestan hafs. Hin stórkostlega gjöf hans til stofnunar

og viðhalds kennarastóls í íslenzkum fræðum við Manitoba-háskóla, mun lengi halda uppi nafni hans.

Ásmundur var glaðlyndur maður og hafði mikið yndi af að fagna gestum á heimili sínu, einkanlega þeim, sem heiman komu af Íslandi.

Ásmundur bjó síðari hluta ævi sinnar á 910 Palmerston Avenue í Winnipeg og hygg ég að þeim fjölmörgu Íslendingum heiman af Íslandi, sem heimsóttu hann og dvöldu hjá honum þar, verði lengi minnisstæð hin mikla og innilega gestrisni, sem menn urðu aðnjótandi á því heimili. Reyndist hann mörgum, sem til hans leituðu, hin mesta hjálparhella.

Gestrisni norðlenzkra bænda, og þá ekki sízt húnvetnskra, hefir löngum verið rómuð. Fylgdu bændur gestum oft langt á leið, er þeir fóru. Þegar ég var gestur Ásmundar og Sigríðar í Winnipeg árið 1933, sagðist Ásmundur vilja fylgja mér dálítið á leið, eins og títt væri í Miðfirði, og skrapp með mér suður til Chicago, sem þá var 26 klukkustunda ferð í hraðlest! Sigríður, kona Ásmundar, dó 1934, en árið 1937 giftist Ásmundur síðari konu sinni, Guðrúnu Eiríksdóttur, dóttur íslenzks bónda í Nýja-Íslandi, hinni ágætustu konu, sem reyndist Ásmundi mjög vel, annaðist og hjúkraði honum með afbrigðum vel í hinni löngu banalegu hans.

Allir þjóðhollir Íslendingar vilja halda sem lengst og sem bezt við tengslunum milli heimaþjóðarinnar á Íslandi og þeirra dætra hennar og sona er búa vestan hafs. Hið mikla þjóðræknisstarf Vestur-Íslendinga hefir jafnan hvílt á herðum tiltölulega fárra manna. Með fráfalli Ásmundar Jóhannssonar er slitin gild taug milli Vestur- og Austur-Íslendinga.

*P. H. T. Thorlakson:*

# A Tribute to the late Mr. A. P. Johannsson

*"The man who succeeds above his fellows is the one who, early in life, clearly discerns his object, and towards that object habitually directs his powers."*—BULWER

The late Asmundur P. Johannsson belonged to an older generation, therefore, my contacts with him did not develop into that close personal intimacy and understanding that can exist between individuals of near equal age and similar experiences. However, in latter years, it was my good fortune to come to know this sturdy and steadfast man and to appreciate the qualities of heart and mind which made possible his many contributions to Canada and to Iceland.

Asmundur P. Johannsson came to Winnipeg from Iceland as a young man, 25 years of age. He was a carpenter by trade and, because of the opportunities available at that time, he soon found himself engaged in the contracting and building business. By his industry, good judgment, and outstanding ability his financial security was soon established.

He was a practical man. To him, it was a waste of time to talk about starting a venture unless he was confident that the foundation was sound, and that the project could be successfully financed.

Asmundur P. Johannsson's business foresight and intense love for his native land led him to participate in the

formation of the Icelandic Steamship Company. This new venture was necessary for the economic development and independence of Iceland. Its success was, in part, due to the financial support from the Icelandic people in America. The late Mr. A. P. Johannsson and the late Mr. Arni Eggertson, who became Directors of the Company, were to a large extent responsible for the promotion of this undertaking amongst their compatriots on this continent. It is interesting to note that when Iceland became isolated from the mainland of Europe during the World War of 1914-18, it was the ships of the Icelandic Steamship Company that plied between Reykjavik and North America carrying back vital supplies to Iceland.

Asmundur P. Johannsson was a member of the First Lutheran Church of Winnipeg and with the late Dr. B. J. Brandson was responsible for securing for the congregation the present church building on Victor Street.

He was one of the founders of the Icelandic National League, and a most valuable member of the executive committee. To perpetuate the ideals and objects of this Society, he felt that the continued publication of a weekly paper in the Icelandic language was essential. He gave of his time and means in supporting Lögberg, and came to the rescue of the Columbia Press when it was in financial difficulty. He and the editor, Mr. Einar P. Jonsson, were largely responsible for the re-organization of the Company in the year 1940.

For many years, the leaders of the Icelandic group who had settled in this community had felt that a united effort should be made to create a Department of Icelandic Studies on the University level, and at the same time to strengthen and keep alive the contacts with the Old Land. As time went on, the subject became one of general interest and was discussed at great length by individuals, small groups and organizations. Many and varied were the ideas

and opinions expressed as to how this undertaking could be accomplished.

The persuasive arguments of such men as the Rev. Albert Kristjansson, the late Dr. R. Petursson, the late Dr. B. B. Jonsson, Professor Sigurdur Nordal, the late Mr. Justice Hjalmar Bergman, Mr. Einar P. Jonsson, Judge Walter Lindal, and others, were given serious consideration. These men maintained that the creation of a Department on the University level was a practical method by which a permanent contribution could be made by the Icelandic people to the cultural development of Canada. This contribution would be based on their own rich heritage in the field of history, language and literature, and would be a continuation of the pioneer work in the field of education made by such men as the late Dr. Jon Bjarnason, the late Rev. Fridrik J. Bergman and Rev. Runolfur Marteinsson.

There was never any opposition to the suggestion that the University of Manitoba was the logical place for a permanent Chair of Icelandic Language and Literature. There remained the problem of obtaining the funds necessary to bring to fruition such an ambitious project. Here again it was Asmundur P. Johannsson who rescued the idea from being merely a cherished dream and helped to transform it into a reality. It is doubtful if the Foundation Committee would ever have undertaken the responsibility of raising two hundred thousand dollars if Mr. Asmundur P. Johannsson's gift of fifty thousand dollars had not been made. This gift of Mr. A. P. Johannsson's may be regarded as the greatest single factor that led to the establishment of the Chair of Icelandic Language and Literature in the University of Manitoba.

The Icelandic people on this continent can rejoice in this achievement, because the Chair they have created is unique in that it is the only privately endowed Chair or Department in any University in Western Canada. It

is the foundation on which will rest to a large extent the Icelandic cultural activities in North America. Mr. Johannsson, though in declining health, followed with keen interest and satisfaction the progress of the undertaking that he had so generously supported, and lived to see the Chair of Icelandic Language and Literature established.

The late Mr. Johannsson leaves three sons: Jonas Valdimar (Walter), owner and manager of the Pine Falls Theatre, Pine Falls, Man.; Kari Vilhelm (Bill), proprietor and manager of Building Mechanics Ltd., and Grettir Leo, manager, Royal Danish Consul for Manitoba and Consul of Iceland for Manitoba, Saskatchewan and Alberta, both of Winnipeg. It was with their knowledge and whole-hearted approval that Mr. Johannsson made his generous offer to the University of Manitoba. To them this act was a fitting climax to an active and useful life. No one was more anxious to see this undertaking succeed than the immediate members of his family.

Asmundur P. Johannson will long be remembered by the Icelandic people of two countries — the land of his birth, and the land of his adoption. He gave of himself to each, and in the giving there was no conflict of loyalty.

As I think of Asmundur P. Johannsson with his remarkable physical stamina and his practical approach to the problems of life, I am reminded of an analogy: There was a sturdy oak that withstood the rigors of winter, the scorching sun of summer, and the heavy winds that blew against it. It seemed to defy the elements and remain the same while lesser trees around it were broken or bent. As people looked at this tree, they wondered from where it derived its strength. The reason the oak survived while others perished was because it was a hardy tree to start with, and it drew its strength and vitality from a source unseen. Its endurance came *from roots buried deep and firm in the earth from which it sprang.*

*Richard Beck:*

# Minningarorð um merkan samherja

Dauðinn kemur alltaf of snemma, hvort sem gamlir eða ungir eiga í hlut, eða svo er það að minnsta kosti í augum ættingja og vina þess, er úr hópnum hverfur yfir móðuna miklu.

Þau almennu lífssannindi urðu mér ofarlega í huga við fráfall góðvinar míns og gamla samherja, Ásmundar P. Jóhannssonar, fyrir stuttu síðan. Hann hafði að vísu, eins og kunnugt er, lengi legið rúmfastur og háð langt sjúkdómsstríð, og mátti því með sanni segja, að hvíldin væri honum þæg; eigi að síður fyllti lát hans hugi hinna mörgu vina hans, hvað þá ástvinanna, einlægri eftirsjá. Mikið skarð var höggvið í ættargarð og vinahóp, og sess, er með sæmd hafði verið skipaður, stóð auður.

Og af sjónarhóli saknaðar og eftirsjár skýrist mynd þess, er kvaddur hefir verið; færra skyggir nú á hann og hann skyggir ekki lengur á neinn. Á þetta sérstaklega við um þá menn og þær konur, er að einhverju leyti hafa skorið sig úr í hópi samferðasveitarinnar, verið um eitthvað höfði hærri en allur þorri hennar. Það var sá margreyndi sannleikur í samskiptum manna, sem Stephan G. Stephansson færði í eftirminnilegan orðabúning í „Helga-erfi“ sínu, er hann segir:

*„Meðan uppi er eikin há*
*illt er vöxt að greina.“*

Og litlu síðar í sama merkiskvæði:

*„Verða um stórleik merkismanns*
*misgár ýmiskonar.“*

Þessi spaklegu orð skáldsins hverfa mér í hug, er ég renni sjónum yfir langan, athafnaríkan og um margt harla merkilegan æviferil Ásmundar vinar míns. Og samlíking skáldsins við eikina háu sækir fastar á mig.

Fyrir eigi löngu síðan átti ég leið fram hjá landsvæði, þar sem mikill og fagur skógur hafði eitt sinn gnæft hátt við himinn í allri tign sinni, en nú hafði köld og miskunnarlaus hönd tímans og margvíslegra tortímingarafla leikið hann svo, að þar gat aðeins að líta einmana tré á strjálingi. Mér varð einkennilega innan brjósts og djúp saknaðarkennd greip huga minn. Hinn grisjaði skógur varð mér, eins og hann hefir svo oft orðið áður, táknmynd fækkandi sveitar íslenzkra frumherja, karla og kvenna, hér í Vesturheimi, þeirra, er þar hafa borið hátt og hetjulega merki íslenzks manndóms fram til sigurs á mörgum sviðum. Og sú mynd verður mér ofarlega í huga, er ég minnist Ásmundar P. Jóhannssonar, því að hann stóð óneitanlega um margt framarlega í þeim hópi, bæði í athafnalífi og félagsmálum landa sinna vestur hér.

Hann var kynborinn sonur sinnar gömlu móður, Fjallkonunnar, skírskorinn í ásýnd og aðsópsmikill, bar, í einu orði sagt, ósvikið mót síns heimalands, og villti aldrei á sér heimildir. Allir, sem honum kynntust, vissu, að þar fór Íslendingur, heill og trúr sínu þjóðareðli, er bar í brjósti hollan metnað fyrir hönd þjóðstofns síns, og sýndi það ríkulega í verki.

Þannig kom Ásmundur mér fyrir sjónir, er fundum okkar bar fyrst saman fyrir meir en þrem áratugum, og sú mynd hans varð enn gleggri og sterkari dráttum dregin við nánari kynni og áratuga samstarf. Leiðir okkar lágu fljótt saman þegar eftir komu mína heiman um haf frá Íslandi til Winnipeg haustið 1921, enda var það bæði, að hann tók vel nýkomnum löndum sínum, og þá eigi síður hitt, að við áttum sameiginlega áhugamál, þar sem voru bindindismálin og þjóðræknismálin, að kirkjumálunum

ógleymdum. Einkum urðu kynni okkar náin, er ég gerðist það ár umferðakennari Þjóðræknisfélagsins í íslenzku, en það er á allra vitorði, sem nokkuð verulega hafa fylgst með þjóðræknismálum okkar, hve hjartfólgin Ásmundi var íslenzkukennsla barna og unglinga vestur hér, og hve ötullega og örlátlega hann studdi þau mál. Hann hafði einnig, eins og alkunnugt er, verið einn af stofnendum Þjóðræknisfélagsins og á þessum fyrstu árum þess og jafnan síðan einn af helztu formælendum þess og mestu máttarstólpum. Átti ég því, sem einn af íslenzkukennurum félagsins, mikið saman við hann að sælda, og var sú samvinna um allt hin ánægjulegasta. Ætla ég og, að honum hafi fundist það fyrsta starf mitt vestan hafs í þágu hans hugstæða félagsskapar nokkur góðspá um framtíð mína í hinu nýja landi; eitt er víst, að kennslan sjálf og kynnin við hann og fjöldamargt annað ágætisfólk af íslenzkum stofni í sambandi við kennslustarfið varð mér nýkomnum hin lærdómsríkasta reynsla og batt vinabönd, sem enn haldast órofin.

Enn nánari varð þó samvinna okkar Ásmundar og kynni okkar rótgrónari að sama skapi, eftir að ég fyrir fullum 20 árum síðan gerðist starfandi um langt skeið embættismaður í Þjóðræknisfélaginu. Áttum við árum saman sæti samtímis í framkvæmdarnefnd félagsins, hann sem féhirðir, en ég sem vara-forseti og forseti, og liggur það í augum uppi, hve náið og margþætt samstarf okkar hlaut að verða að félagsmálunum, bæði á þjóðræknisþingum, stjórnarnefndarfundum og utan funda, og tekur það einnig að meiru eða minna leyti til þeirra ára á umræddu tímabili, sem við áttum eigi sæti í framkvæmdarnefnd félagsins, því að Ásmundur lét sig hag félagsins jafn miklu skipta, og bar þjóðræknismálin eins ótrauðlega fyrir brjósti, hvort sem hann skipaði sæti í stjórnarnefnd félagsins eða eigi, og ber sú afstaða hans fagran vott heilhuga hans og hollustu í þeim málum.

Og er ég nú horfi yfir hið langa samstarf okkar í þessum málum, þá er þess ljúfast að minnast, hve ánægjulegt það

var í alla staði. Vitanlega vinna menn ekki áratugum saman að svo víðtækum málum, að skoðanamunur geri ekki vart við sig endur og sinnum, annað væri blátt áfram óheilbrigt, enda var minn mikilsmetni samherji, Ásmundur, fastur fyrir og fylginn sér í málaflutningi, og var það eitt af því, sem gerði hann að eins miklum áhrifamanni í þeim málum, sem hann beitti sér fyrir, eins og raun ber vitni. En hann átti einnig meðal annars, þann ágæta kost, að þegar málunum hafði verið ráðið til lykta, á hvern veg, sem þau fóru, þá sætti hann sig möglunarlaust við þau málalok, og lét úrslitin engin áhrif hafa á afstöðu sína til fyrrverandi skoðanaandstæðinga sinna. Með þeim, er þeirri bardagaaðferð beitir í árekstri um sameiginleg áhugamál, er ánægjulegt að starfa, enda minnist ég þess ekki, að neinn skuggi félli nokkurn tíma á vináttu okkar Ásmundar á öllum umræddum árum, og er því og verður alltaf bjart og hlýtt um minningu hans í huga mínum.

Í þessu langa og nána samstarfi okkar Ásmundar að þjóðræknismálum kynntist ég því, að vonum, sérstaklega vel, hve ríka ást hann bar í brjósti til ættjarðarinnar og vildi veg hennar sem mestan í öllu. Hann sýndi þá djúpstæðu rækt sína einnig eftirminnilega í verki með hinu mikla og margþætta starfi sínu í þágu Þjóðræknisfélagsins, með drengilegri þátttöku sinni í stofnun Eimskipafélags Íslands og starfi, og um annað fram með höfðinglegu fjárframlagi sínu til stofunar kennarastólsins í íslenzku við Manitobaháskóla, er traustan grundvöll lagði að framkvæmd þess nytjamáls, og með því reisti gefandinn sér einnig hinn óbrotgjarnasta minnisvarða.

Ekki fæ ég heldur skilist svo við þessi minningarorð um þennan góðvin minn og samherja, að ég minnist eigi með þakklátum huga fjölmargra ánægjustunda á hinu fagra heimili þeirra Ásmundar og konu hans, þar sem íslenzk gestrisni í hinni sönnustu mynd réði ríkjum og andrúms-

loftið var þrungið vorhlýju vinsemdarinnar í gestanna garð. Á slík heimili er gott að koma.

Á fundarhamri þeim hinum fagurgerða, hinu mesta gersemi, sem Ásmundur P. Jóhannsson lét Ríkarð Jónsson inn skurðhaga smíða, og sæmdi Þjóðræknisfélagið að gjöf, er áletruð þessi snjalla vísa Einars skálds Benediktssonar:

*„Milli stranda bindur bönd*
*bræðra andans kraptur.*
*Hylli landans vina vönd*
*vitjar handan aptur.“*

Óhætt mun mega fullyrða, að þær ljóðlínur túlki fagurlega hina þjóðræknislegu trúarjátningu Ásmundar, og trúr þeirri játningu sinni vann hann sín mörgu og merku störf í þágu ættlandsins og fósturlandsins, því að hann var bæði tryggur sonur síns heimalands og dyggur þegn kjörlandsins, þessi heilsteypti Íslendingur, kjarnakvistur sprottinn úr íslenzkri mold.

*Jónas Jónsson:*

# Merkur samtíðarmaður

Með nokkurra ára millibili er þess getið í fréttadálkum blaðanna í Reykjavík, að Ásmundur P. Jóhannsson í Winnipeg hafi komið til landsins og muni innan skamms leggja leið sína norður í Húnavatnssýslu. Stundum er það líka tekið fram, að Ásmundur komi til að sitja aðalfund Eimskipafélags Íslands.

Ef betur er að gáð, liggur merkileg saga bak við þessar fáorðu fréttir. Hér er bæði um að ræða sérstaklega þróttmikinn og þjóðlegan mann og um leið endurspeglast í lífsstefnu og háttum Ásmundar P. Jóhannssonar óskir og draumar þúsund annara landa í Vesturheimi, sem vildu geta verið tíðir fargestir heim til gamla landsins, ef lífskjörin hefðu leyft þá tilbreytni.

Þegar Ásmundur P. Jóhannsson hafði verið nokkur ár búsettur vestan hafs og kom fyrstu ferð sína á æskustöðvarnar hitti hann föður sinn fyrstan manna á bænum.

Jóhann tók syni sínum stillilega en með nokkru fálæti. Að afloknum kveðjum sneri hann sér að Ásmundi og mælti: „Ertu líka agent?“ Ásmundur kvað það ekki vera. Þá hlýnaði svipur föður hans. Jóhann hafði alið í brjósti nokkurn beyg af að sonur hans kynni að vera kominn til að hvetja fólk til að yfirgefa landið, svo að hendurnar yrðu enn færri til að yrkja og bæta óræktuðu moldina heima fyrir.

Ásmundur P. Jóhannsson kom ekki til Íslands til að veikja heimaþjóðina og ættland sitt. Hann kom í þetta sinn, og ætíð endranær, af ómótstæðilegri innri þörf til að sjá Ísland, sækja Húnavatnssýslu heim, koma fram á öræfin,

milli átthaga hans og Borgarfjarðar, anda að sér hinu kalda, tæra andrúmslofti ættlandsins og heyra móðurmálið á vörum fólksins.

Ásmundur P. Jóhannsson var fulltíða maður og útlærður trésmiður, þegar hann fór í fyrsta sinn vestur um haf. Hann bjóst þá við, eins og svo margir aðrir vesturfarar, að koma innan skamms heim aftur og eyða aldri sínum á Íslandi. En þegar vestur kom hertók starfið Ásmund. Hann var útsjónar- og eljumaður. Verkkunnátta hans kom honum að góðu haldi. Hann fór að byggja hús, og þeirra var mikil þörf í hálfnumdu landi. Húsin urðu fleiri og fleiri. Smátt og smátt var smiðurinn úr Húnavatnssýslu orðinn eigandi margra húsa. Sambyggingum hans fjölgaði með tímanum. Ásmundur P. Jóhannsson var ekki aðeins smiður, heldur mikill fésýslumaður og fjárgæzlumaður. Útsjón hans og reglusemi voru í bezta lagi. Hann varð smátt og smátt með efnuðustu Íslendingum vestan hafs, og eftirsóttur fjárráðamaður við þjóðlegar stofnanir, kirkjufélagið, Lögberg, Þjóðræknisfélagið og margháttaða líknarstarfsemi, sem haldið var uppi á vegum Íslendinga vestan hafs. Reyndin leiddi í ljós, að hvar sem Ásmundur P. Jóhannsson gætti fjármuna, hvort sem það var fyrir hann sjálfan eða aðra, var aldrei að ræða um afslátt eða undanhald.

Þegar byrjað var að undirbúa stofnun Eimskipafélags Íslands var Ásmundur P. Jóhannsson frá upphafi í fararbroddi þeirrar hreyfingar vestan hafs, sem vildi styðja það fyrirtæki. Er skemmst frá því að segja, að stórmikið fé safnaðist í stofnsjóð Eimskipafélagsins úr öllum byggðum og bæjum þar sem Íslendingar áttu heima í Ameríku. Var fjárstofnun þessi hinn mesti styrkur Eimskipafélaginu en sýndi um leið þjóðrækni og fórnfýsi landa í Vesturheimi. Þeir voru langminnugir skipaleysis og verzlunarókjara fyrri tíma. Þeir mundu hörmulega aðbúð á vesturfaraskipum og þeir óskuðu frændum sínum og vinum að geta nú fetað í

spor forfeðranna, sem fluttu fólk og varning, hvert sem fara skyldi á eigin skipum. Samkvæmt stofnlögum Eimskipafélagsins höfðu Vestur-Íslendingar rétt til að tilnefna tvo fulltrúa í stjórn þess. En svo gætilega var þar haldið á fjármunum, að aldrei virðist hafa verið gert ráð fyrir að ferðalög þessara fulltrúa á aðalfund væru styrkt með framlagi úr félagssjóði. Ferð frá Winnipeg til Reykjavíkur er dýr, og þess var sízt að vænta, að landar að vestan gætu að staðaldri haft fulltrúa frá Winnipeg á þessum fundum. Var því og sízt bætandi á hluthafana vestan hafs, að þeir legðu árlega fé fram með hlutareign þeirra, sem mátti í raun og veru líta á sem gjöf til landsins og Íslendinga austan hafs. En einn var sá landi vestan hafs, sem lagði oft og mörgum sinnum í þessa löngu leið yfir hafið og ætíð án endurgjalds, var það Ásmundur P. Jóhannsson. Hann mun frá byrjun hafa átt sæti í stjórn félagsins og sótt fundi, þegar þess var nokkur kostur. Honum var kærkomið tilefni að heimsækja félagið og ræða áhugamál þess við þá menn, sem standa daglega að störfum og framkvæmdum í þágu íslenzkra siglingamála.

Þegar Ásmundur P. Jóhannsson kemur til Íslands dvelur hann jafnan nokkra stund í Reykjavík, því þar á hann fjölmennan hóp vina og velvildarmanna. En þó er förinni fyrst og fremst heitið norður í Húnavatnssýslu, á bæinn þar sem hann er fæddur og uppalinn, á bæi þar sem hann hefir dvalið á æskuárunum, á heimili bróður hans, sem býr heima í sveit þeirri og um fram allt fram á heiðar. Hin frjóu og víðlendu afréttarlönd á Tvídægru og Arnarvatnsheiði eru óskalönd Ásmundar P. Jóhannssonar. Hann sækir eftir að vera á Íslandi fram á haust til að geta tekið þátt í göngum fram á heiðar og verið með í starfi og fögnuði réttanna. Þegar haustar hverfur Ásmundur vestur um haf, eins og sannur farfugl. Vestur í Winnipeg er heimili hans, prýðilegt á allan veg, mannmörg fjölskylda, umfangsmiklar eignir og margháttuð félagsstörf. Ásmundur P. Jóhannsson

gerir að veruleika draum landans í Vesturheimi, sem fæddur er á Íslandi, en flytur vestur um haf. Hann á heimili vestra, fjölskyldu, eignir og framtíðarvonir. Hann er góður sonur Ameríku. Hann tekur þátt í allri baráttu og áhættu hins nýja ættlands. Í fyrra heimsstríðinu gerðust tiltölulega fleiri Íslendingar sjálfboðaliðar í liði Ameríkumanna heldur en frá nokkru öðru þjóðarbroti vestan hafs. Hafa landar þó ekki tekið þátt í hernaði og vígaferlum öldum saman. En Íslendingar í Ameríku setja metnað sinn í að vera traustir þegnar í því landi, þar sem þeir starfa og verður ættland barna þeirra og barnabarna, en geyma jafnframt minningar um Ísland í huga sér með fölskvalausri sonarást. Á þann hátt er enginn tvískiptingur í ættjarðartilfinningu Vestur-Íslendinga. Þeir gefa keisaranum hvað keisarans er, en gamla ættlandinu það, sem því getur frekast orðið til gagns og sæmdar.

Ásmundur P. Jóhannsson kann vel starfa og að njóta hvíldar og tilbreytni. Hann tekur mjög virkan þátt í félagsskap landa vestan hafs, eins og fyrr er að vikið. Hann vann með öðrum áhugamönnum landa í Vesturheimi að hinum fjölþætta undirbúningi að þátttöku Vestur-Íslendinga á Alþingishátíðina 1930. Hann átti með forystumönnum landa vestan hafs mikinn þátt í að Vestmenn viðurkenndu með Leifsstyttunni í Reykjavík, að Íslendingur hefði fyrstur manna fundið Ameríku. Hann var sístarfandi með öðrum leiðtogum Þjóðræknisfélagsins að því að fá þingið og stjórnina í Kanada til að gefa Kanadasjóðnum 100 þús. kr. í sambandi við Alþingishátíðina, til styrktar námsferðum Íslendinga til Kanada.

Ásmundur P. Jóhannsson hefir neytt þess að hann er húsasmiður, og reist sér prýðilegt en mjög einkennilegt hús. Það minnir meira á íslenzkt sveitaheimili, í fornum sið, heldur en skýjakljúf í Vesturheimi. Húsið er mjög rúmgott með mörgum og góðum herbergjum á einni hæð, en í kjallara mikil viðbót til gestamóttöku í sumarhitanum. Er

það síður í húsum efnaðra manna að geta forðast óþægindi sumarhitans í svölum salarkynnum í kjallara með vélrænum loftleiðslum. Ásmundur P. Jóhannsson hefir risnu mikla, bæði fyrir vini sína heima fyrir, og þá ekki síður þegar Austur-Íslendinga ber að garði. Hann er prýðilega giftur. Er frú hans úr Mýrasýslu, að líkindum af hinni kynsterku ætt Borgarmanna. Eru þau hjón mjög samtaka um hugðarefni heimilisins og viðhorf til íslenzkra mála, beggja megin hafsins. Er gestrisni þeirra viðbrugðið og koma þar stundum á annað hundrað manns á einum degi, þegar þau hjón hafa opið hús vandamanna og vina í Winnipeg.

Það hafði lengi verið sameiginlegt hugðarmál margra af áhugasömustu forgöngumönnum landa í Vesturheimi að geta eignast svo ríflegan sjóð, að af vöxtum hans mætti tryggja álitlegan fræðimann til starfa sem prófessor í íslenzku við háskólann í Winnipeg. Fyrir þessum mönnum vakir sú hugsjón, að með því að gera kleift að íslenzkur maður geti kennt íslenzkt talmál, málfræði og bókmenntasögu við háskóla í þeirri borg, þar sem íslenzki kynstofninn mun jafnan láta á sér bera, væri móðurtungunni reistur sá minnisvarði í nýja heiminum, sem lengi myndi minnst verða. Voru hafin samskot í þessu skyni, milli heimsstyrjaldanna. Hygg ég, að merkisbóndi, Magnús Hinriksson að nafni, ættaður úr Ölfusinu, hafi riðið þar á vaðið með 3000 dollara gjöf í erfðaskrá sinni. Margir fleiri höfðu lagt í þann sjóð, og aðrir hafa viðbúnað í því efni. En þegar síðara stríðið skall á, þyngdi undir fæti um fjármál almennings. Urðu skattar þá háir, en tekjur óvissar. Er erfitt að fullyrða hversu takast muni fyrir löndum vestra að ljúka þessu máli um sinn, á þann veg sem til hafði verið ætlast.

En fyrir tæpu ári gerðist sá atburður í sögu þessa máls, sem lengi mun verða minnst. Ásmundur P. Jóhannsson var þá sjötugur að aldri. Og á þessum afmælisdegi gaf hann móðurmáli sínu 300 þús. kr. sem sérstaka heiðursgjöf. Hann

gaf þessa fjárhæð í sjóð, sem um aldir og ævi á að standa straum af fullkominni íslenzkukennslu við háskólann í Winnipeg.

Þessi gjöf er að flestu leyti einstök í sinni röð. Hér er um að ræða stærstu fjárhæð, sem íslenzkur maður hefir gefið til almannaþarfa. Og þessi gjöf er gefin til að efla andleg verðmæti, til að halda á lofti frægð og sæmd móðurmáls Íslendinga í fjarlægu landi.

Ásmundur P. Jóhannsson gerir vafalaust ráð fyrir að fleiri menn gefi síðar í þennan sjóð, enda þarf þess með, ef unnt á að vera að ná tilganginum. Vestmenn vita, að það þarf mikinn höfuðstól til að geta staðið straum af embætti við háskóla, ef efnismenn eiga að sækja þangað. Þess vegna munu þeir ekki láta sjóðinn taka til starfa fyrr en hann er, að þeirra dómi, orðinn nógu öflugur til að geta fullnægt tilgangi sínum.

Föður Ásmundar P. Jóhannssonar þótti það miklu skipta, að sonur hans væri ekki umboðsmaður erlendra stjórnarvalda til að fá landa til flutnings vestur um haf. Sá ótti var meira en ástæðulaus. Norræn ævintýraþrá og leit eftir erfiðum viðfangsefnum bar Ásmund P. Jóhannsson eins og flesta íslenzka landnámsmenn í fjarlæga heimsálfu. Hann hefir numið land með orku og athafnaþrá. Hann er traustur borgari í því landi, sem hann hefir átt þátt í að nema. En jafnframt því dvelur hugur hans á Íslandi, við sögulegar minningar og viðfangsefni fólksins. Þar lærði hann móðurmálið við kné móður sinnar í faðmi íslenzkra byggða. Þetta mál er dýrasta eign hans. Þess vegna fórnar hann þeim efnum, sem honum hafa hlotnast í hans nýja föðurlandi til að fegra og tigna íslenzkuna. Fordæmi hans er glæsilegt. Í því er fólgin virðuleg eggjun til Íslendinga, hvar sem þeir eru búsettir. Þeir eiga allir skyldum að gegna við dýrmætasta fjársjóð sinn, tungu feðra og mæðra allra barna landsins.

*Blaðamannabókin* 1946

*Ingibjörg Jónsson:*

# Kveðja frá Laugardagsskólanum

Allmargir, bæði hér og á Íslandi, hafa minst Ásmundar P. Jóhannssonar látins, og lofað hina gifturíku starfsemi hans í þágu íslenzkra mála svo sem maklegt er; þó hefir eins áhugamáls hans ekki enn verið getið, sem hann lét sig mikið skipta, og ég hygg, að honum hafi verið kærara en flest önnur, þótt það teldist e. t. v. ekki til hinna stórbrotnari hugsjónamála hans, en það var viðhald og efling Laugardagsskóla Þjóðræknisfélagsins í Winnipeg. Vegna þess að ég átti samstarf með honum á þeim vettvangi í fjöldamörg ár, þykir mér hlýða, að minnast lítillega þess þáttar í þjóðræknisbaráttu hans.

Ásmundur P. Jóhannsson var þeirrar skoðunar, að íslenzk þjóðræknisstarfsemi vestan hafs grundvallaðist á því, að sem flestum börnum og unglingum væri kend íslenzk tunga; en hann krafðist ekki meir af öðrum í þeim efnum en af sjálfum sér; hann sá um það, fyrst og fremst, að hans eigin synir lærðu að tala og skrifa íslenzku.

Alla viðleitni í þá átt, að kenna íslenzku hér í borginni, mun hann hafa stutt frá því fyrsta, en hann tók fyrst að sér forustu í því máli eftir að Þjóðræknisfélagið stofnaði Laugardagsskólann haustið 1933, að hans ráðum.

Dr. Rúnólfur Marteinsson tók þá að sér stjórn skólans með fimm aðstoðarkennurum. Hátt upp í 160 barna sóttu skólann fyrsta árið og þótti það, að vonum, spá góðu um framtíð hans, en því miður rættust ekki allar þær vonir, sem tengdar voru við hann. Aðsókn fór smáþverrandi ár frá ári, þar til leggja varð niður skólann fyrir ári síðan.

Ég kynntist fyrst Laugardagsskólastarfseminni vorið 1938, þá nýflutt til borgarinnar; fór ég með manni mínum á lokasamkomu skólans. Hann sagði mér, að við yrðum að sækja þessa samkomu, bæði vegna skólans og vinar síns, Ásmundar P. Jóhannssonar, sem bæri velferð skólans mjög fyrir brjósti, og hefði verið önnum kafinn í marga daga við að selja aðgöngumiða að samkomunni. — Hvert sæti var skipað í Fyrstu lútersku kirkju. Börnin sungu íslenzka söngva yndislega vel undir stjórn Ragnars H. Ragnars. — Þá um haustið kom svo Ásmundur og bað mig að ganga í kennaralið skólans. Gerði ég það og var jafnan síðan á einn eða annan hátt riðin við þá stofnun.

Starf Ásmundar við skólann fólst fyrst og fremst í því, að útvega kennarana. Sagði hann einu sinni í spaugi, að hann væri svo oft búinn að ganga á biðilsbuxunum og krjúpa, að þær væru orðnar gatslitnar. En honum gekk jafnan vel að fá kennara, enda var hann vel fylginn sér í málarekstri sínum, og naut jafnframt áhrifa vina sinna í þessum efnum. Störfuðu margir lærðir og hæfir kennarar við skólann um lengri og skemmri tímabil. Er það sérstaklega þakkarvert, hve margar íslenzkar kennslukonur við skólana hér í borg gáfu dýrmæta laugardagsmorgna sína í þágu íslenzkunnar. Allt þetta starf var unnið án endurgjalds.

Það var ekki vegna þess að nægilegir kennslukraftar væru ekki til boða, að Laugardagsskólanum fór hnignandi, heldur hins, að nemendum fór fækkandi, þrátt fyrir hvatningar til foreldranna frá íslenzku blöðunum, kennurunum og umsjónarmanninum. Ýmislegt hugkvæmdist Ásmundi til að laða börnin að skólanum. Hann gaf nemendunum tvisvar á ári aðgöngumiða að kvikmyndahúsi; hann sá um að Þjóðræknisfélagið gæfi þeim jólaglaðningu; hann heimsótti foreldra barnanna; hann sótti oft nemendur og kennara, sem langt áttu að í bíl sínum, ef vont var í veðri á laugardagsmorgna. — Allflesta laugardagsmorgna kom hann í skólann, meðan kraftar leyfðu, talaði við börnin og gerði að gamni

sínu við þau; heilsaði upp á kennarana og grennslaðist eftir, hvort þá vanhagaði um nokkuð við kennsluna.

Eins og vænta mátti fundu kennarar oft sárt til þess, þegar aðsókn að skólanum var léleg, en aldrei heyrðist æðruorð af vörum Ásmundar. Hann var þannig gerður, að því meir sem á móti blés, þess þéttar stóð hann fyrir. Skapgerð hans endurspeglast í þessum orðum: — „Hugur skal því harðari, hjarta prúðara, móður því meiri, sem oss megin þver“. — En ef til vill varð Laugardagsskólinn honum enn kærari einmitt vegna allrar þeirrar umhyggju og fyrirhafnar, sem hann lagði á sig fyrir hann.

Nítján ára starf skólans verður hvorki vegið né mælt, en hver getur sagt, að það hafi verið unnið fyrir gýg?

Hin mörgu börn, sem sótt hafa skólann í lengri eða skemmri tíma á þessu tímabili, hafa kynst tungu feðra sinna, íslenzkunni, meir, en þau hefðu annars átt kost á. Þau hafa numið íslenzk kvæði, íslenzka söngva, og hafa komið fram í íslenzkum leikjum. Þau munu minnast með þakklæti, á komandi árum, alls þessa og kennara sinna, en sérstaklega munu þau þó minnast vinar síns, Ásmundar P. Jóhannssonar, þar sem hann sat framarlega á bekk, ásamt konu sinni, á lokasamkomum Laugardagsskólans og ljómaði af gleði, þegar þau komu fram á leiksviðið og fóru fagurlega með „ástkæra ylhýra málið“ hans.

Winnipeg, 28. desember 1953

*Valdimar J. Eylands:*

# Fáein minningarorð

Ég var mjög ungur, er ég fyrst heyrði Ásmundar getið. Það stóð einskonar ævintýraljómi um nafn hans í fæðingarsveit minni og nágrenni. Fólkið talaði oft um hann, að mér virtist, með undrun og lotningu. Hann var afar ríkur og mikill maður og bjó í skrautlegri höll óralangt í burtu, fyrir vestan sólarlag. Að vísu var hann ekki dáinn, en nærri sama sem, — hann átti heima í Ameríku. Það var ekkert því til fyrirstöðu, að hann gæti verið dáinn, nema það að hann kom heim í sveitina sína öðru hvoru. Hafði hann þá á sér höfðingjasnið, var í fínni fötum en jafnvel sýslumaðurinn eða presturinn, bar harðan hatt á höfði, þandi digra gullfesti milli brjóstvasanna á vesti sínu, tók í nefið úr forláta silfurdósum, og þeysti á völdum gæðingum milli bæja. En svo skipti hann skyndilega um ham, er hausta tók. Lét hann þá færa sig í ullarpeysu, skinnsokka og suðvesti, fór í göngur fram á öræfi, svaf undir beru lofti, er því var að skipta og lá hvergi á liði sínu. Á réttardaginn stóð hann í forinni, hrópaði upp bæjarnöfn, og hamaðist við fjárdrátt eins og bændur og vinnumenn. Einkennilegur maður, þessi Ásmundur, sagði fólkið, einskonar sambland af útlendingi og Íslending, sveitamanni og heimsborgara. Það hlaut að vera eitthvað mikið varið í Ásmund eða Ameríku, eða hvort tveggja, að hann skuli hafa komizt svona vel áfram þar, pilturinn frá Haugi. En til hvers er að vera mikill maður, ef það er ekki hægt nema annað hvort með því að deyja fyrst, eða fara til Ameríku. Hvers vegna er ekki hægt að dvelja á Íslandi og verða mikill og auðugur maður þar? Þannig hugsuðum við víst margir, sveitungar og nærsveit-

ungar Ásmundar, sem vorum fæddir um sama bil, eða nokkru eftir að hann fór úr landi. En gátan um manndóm hans og afrek var okkur flestum hulin.

Löngu síðar kynntist ég Ásmundi persónulega, og átti samleið með honum og samvinnu um margra ára skeið. En þrátt fyrir náin kynni afhjúpaðist hann aldrei að öllu ævintýraljóma þeim, sem æskusýn mín hafði sveipað hann í fjarlægðinni. Það duldist engum, að það var mikið í Ásmund spunnið; persónumáttur hans var mikill, andinn brennandi að hverju sem gengið var, og hæfileikar foringjans komu fram stöðugt í orðum og athöfnum. Hann var hið mesta hraustmenni á líkama og sál, óvenjulega traustur maður og heilsteyptur að skapgerð og hátterni. Í starfinu með honum skildist mönnum hér vestra, að það er ekki ævinlega nauðsynlegt að dvelja í heimahögum sínum til þess að geta unnið ættlandi sínu og orðið þjóð sinni til sóma. Um hálfrar aldar bil kom hann mjög við sögu landa sinna vestan hafs og hafði einnig heillavænleg áhrif á menn og málefni á ættjörðinni. Ævistarfið var húsabyggingar, var oft talað um hann sem *byggingameistara,* og hann var það í ýmsum skilningi. Hann byggði ekki aðeins fjölskyldubústaði og stórhýsi í erlendri stórborg, heldur leitaðist hann við að reisa musteri hins íslenzka manndóms hvar sem áhrif hans náðu til. Þess vegna beitti hann sér ótrauðlega fyrir öllum þeim málum, sem hann taldi að mættu verða þjóðbræðrum sínum til heilla. Það mun tæplega hægt að nefna nokkra þá grein félagsmála með Íslendingum í Winnipeg síðastliðin fimmtíu ár, að Ásmundur komi þar ekki við sögu. Þannig var hann máttarstólpi Góðtemplara, góður stuðningsmaður kirkju sinnar, frumkvöðull að þátttöku Vestur-Íslendinga í stofnun og fjársöfnun fyrir Eimskipafélag Íslands; lífið og sálin í íslenzkukenslu barna í Winnipeg síðustu áratugina; hann var einn af stofnendum Þjóðræknisfélagsins, og um seytján ára bil meðlimur í stjórnarnefnd þess. Hann hrinti í framkvæmd hugmyndinni um kennarastól í íslenzkum

fræðum við Manitobaháskólann með hinni rausnarlegu fimmtíu þúsund dollara gjöf sinni. Einnig studdi hann ýmis fyrirtæki heima á ættjörðinni, svo sem spítala og stúdentagarð Háskóla Íslands. Ríkisstjórn Íslands sæmdi hann æðsta heiðursmerki, sem hægt er að veita borgara annars lands, og nafn hans mun lengi geymast í sögu Vestur-Íslendinga, sem eins hins ágætasta af niðjum Íslands, sem fluttust í vesturvegu á þessari öld.

Hann var fæddur að Haugi í Miðfirði 6. júlí 1875, sonur Jóhanns Ásmundssonar og Guðrúnar Gunnlaugsdóttur. Hann var tvíkvæntur. Fyrri kona hans, Sigríður Jónasdóttir frá Húki, lézt 1934. Síðari konan Guðrún Eiríksdóttir frá Álftárbakka lifir mann sinn ásamt Jónasi Valdimar, Kára Vilhelm og Grettir Leó, sonum af fyrra hjónabandi hans. Heimili Ásmundar, 910 Palmerston Ave., var eitt hið glæsilegasta meðal Íslendinga í Winnipeg; lá það um þjóðbraut þvera og þaðan eiga margir hlýjar endurminningar um skemmtilegar heimsóknir og mikla rausn húsbænda. Þar lézt Ásmundur 23. október s.l.

Fer vel á því, að Tímarit Þjóðræknisfélagsins geymi mynd og minningu þessa ötula stofnanda síns og starfsmanns, um leið og félagið þakkar manndóm hans og margvísleg störf.

*Tímarit Þjóðræknisfélagsins*

*Finnbogi Guðmundsson:*

# „Smiður sá, er hús vill gera"

Ég minnist þess, að ég fór í tvær heimsóknir fyrsta daginn, sem ég var í Winnipeg (24. nóv. 1951), hina fyrri út á háskóla að hitta dr. Gillson, en hina síðari til Ásmundar P. Jóhannssonar. Lá ágætlega á þeim báðum, þó að misjafnlega væri komið fyrir þeim, og verður mér þessi dagur lengi minnisstæður. Ég vissi, hvern þátt Ásmundur hafði átt í stofnun þess embættis, er ég hafði nú verið ráðinn í, og langaði mig því til að sjá hann sem fyrst. Datt mér og í hug, að honum mundi þykja fróðlegt að sjá mig, þó að fyrir honum kynni að fara líkt og Vögg forðum, er hann kom í höllina og sá Hrólf konung. En hversu sem um það var, held ég, að ég hafi sótt vel að Ásmundi, hann var furðuhress þennan dag og vel málreitinn. Ég man glöggt, hvernig hann leit á mig rannsakandi augnaráði, eins og hann vildi segja: Vertu velkominn, ungi maður, en nú er að sýna, hvað þú getur. — Og hann brosti dálítið um leið og hann tók þétt í höndina á mér. Hvað við spjölluðum, man ég ekki ljóst, en það var eflaust mest um menn og málefni heima, því að þar lék hugurinn löngum á.

Þó að Ásmundur væri farinn mjög að heilsu, þegar ég kom, og sú mynd, sem ég hef af honum, því ófullkomin, fannst mér ég geta lesið úr svip hans og því, er hann sagði, býsna mikið um manninn sjálfan og þá kosti, sem þeim, er þekktu hann lengi og gjörla, voru hugstæðastir. Ég nefni festu hans og kapp, er snúizt gat jafnvel í ósveigjanleik, en á hinu leitinu viðkvæmni hans og mildi. Ég býst við, að eftirfarandi erindi úr einu kvæði Benedikts Gröndals hafi verið Ásmundi mjög að skapi, en erindið er svona:

*Hvar er dyggðin og dáð? Hvar er dugur og náð?*
*Veiztu ekki' að þú átt þetta sjálfur?*
*Farðu heimsins um haf, þó þú hnigir í kaf,*
*bara vertu' ekki veill eða hálfur.*

Öll þau mál, er Ásmundur trúði á, og þau voru mörg, studdi hann af slíkum krafti og áhuga, að þau hlutu að ná fram að ganga fyrr eða síðar. Mun ég ekki fjölyrða um áhugamál hans hér, heldur einungis fara um þau nokkrum almennum orðum.

Ásmundur var smiður að iðn, er hann kom hingað ungur um aldamótin. Stóð hugur hans til húsasmíða, og tókst honum, er fram liðu stundir, að verða flestum afkastameiri í þeirri grein. Átti vel við hann sú lýsing, er höfð var um Snorra Sturluson, að hann var „hinn mesti fjárgæzlumaður" og „hagur á allt það, er hann tók höndum til, og hafði hinar beztu forsagnir á öllu því, er gera skyldi". Við Ásmund áttu og engu síður hin fögru orð, er skráð eru í Elucidarius, útlendu heimspekiriti, er þýtt var á íslenzku á 12. öld. En þar segir svo: „Smiður sá, er hús vill gera, lítur fyrst, hversu hann vill hvatki gera, og rís sú smíð síðan í verki, er fyrr stóð smíðuð í hugviti smiðsins."

Ein var sú bygging, er lengi mun hafa staðið smíðuð í hugviti Ásmundar og loks hefur nú risið í verki fyrir framtak hans og atbeina fjölmargra annarra, þ. e. bygging eða skjólshús yfir íslenzka tungu og bókmenntir við Manitobaháskóla.

Ekki veit ég, hvernig hann hefur hugsað sér þá byggingu í smáatriðum, nema það skyldi vera eins og skáldið kvað:

*Langt til veggja — heiði hátt,*
*hugann eggja bröttu sporin.*

Mér hefur verið sagt, að Ásmundur hafi verið vanur að setja sjálfur allar hurðir og dyraumbúnað í hús sín og verið bæði lagvirkur og fljótvirkur við það. En í þessu húsi, sem hér um ræðir, mun Ásmundur ekki hafa hugsað sér neinar hurðir, heldur skyldi það standa opið og frjálst öllum, sem inn vildu ganga og nema þar íslenzka tungu og bókmenntir. Ásmundur hafði sótt í hvort tveggja bæði þrek og þor og trúði því, að vart mundu til aðrar betri heilsulindir.

Dæmi Ásmundar verður okkur stöðug hvöt að vinna vasklega að varðveizlu og eflingu alls þess, er við teljum bezt í íslenzku þjóðareðli og menningu.

Þó að ég kynntist Ásmundi ekki fyrr en undir ævilok hans, mun ég jafnan minnast þeirra kynna með þakklæti og telja þau mér mikils virði.

Megi nú þau mál, er hann trúði á og barðist fyrir, blessast og blómgast um alla framtíð.

*Stefán Einarsson:*

# Á. P. Jóhannsson dáinn

Föstudagsmorguninn 23. október, lézt góður Íslendingur og einn af hinum kunnustu forustumönnum vorum um langt skeið hér vestan hafs, Ásmundur P. Jóhannsson, að heimili sínu 910 Palmerston Ave., Winnipeg.

Hann var 78 ára, en hafði átt við bilandi heilsu að búa síðustu tvö til þrjú árin.

Að heiman kom Ásmundur um síðustu aldamót, ásamt konu sinni. Settust þau að í Winnipeg og hefir hann átt hér heima síðan.

Skömmu eftir að hann kom vestur, hóf hann húsasmíðar, er hann með framsýni og kostgæfni gerði að stór-atvinnuvegi, er aflaði honum þess fjár og frama, er flestir Vestur-Íslendingar hafa leitað að, en færri fundið.

En auk þessa aðal lífsstarfs hans, var hugur hans alla jafnan bundinn Íslandi og íslenzkum málum. Öllu, sem í þjóðræknismálum hér vestra gerðist, fylgdist hann með af ráði og dáð. Hann var einn af stofnendum Þjóðræknisfélagsins. Má með nokkrum rétti efa, að félag það hefði náð þeim aldri, sem raun er á, ef Ásmundar hefði ekki notið við og fjármálahagsýni hans í stjórn þess. Það var gaman að vinna að félagsmálum með Ásmundi og heyra hann standa fyrir máli sínu og kveða eina vitleysuna eftir aðra niður um eyðslu fjár áður en þess var aflað. En í því efni eru Íslendingar þeir beztu spekúlantar, sem nokkurs staðar finnast.

Annað stórmál, sem Ásmundur var mikið riðinn við, var Eimskipafélagsmálið. Stuðningur hans við það er viður-

kendur að hafa verið mikill af öllum, er að framkvæmd þess máls störfuðu. Hafi Vestur-Íslendingar átt þátt í því, að Eimskipafélagið var stofnað, á Ásmundur sinn fulla skerf af því. Með stofnun þess félags rættist sá aldagamli draumur Íslendinga, að þeir eignuðust sjálfir sín skip og gætu á þeim um sjóinn siglt eftir eigin höfði. Oss virðist sem stuðningur Vestur-Íslendinga í Eimskipafélagsmálinu sé fögur byrjun á framtíðarsamvinnu frændanna austan hafs og vestan. Væri óskandi, að fleiri hefðu hugsjónir og þor Ásmundar í þeim efnum, að efla slíka samvinnu.

Í kirkjumálum veitti Ásmundur Fyrstu lútersku kirkju að málum. Hann veitti og íslenzkukenslu barna hér mikla athygli og hélt lengi upp þeim hætti í ellinni, að sækja skólana og vera börnunum öll sú aðstoð og hvatning, er hann gat í að læra íslenzku. Sú íslenzkukensla féll niður, er hann gat heilsu sinnar vegna ekki sint henni. Hann má heita að hafa verið hinn síðasti, er þar stóð á vakt þjóðernismála vorra. Er að því meira tjón, að kensla sú féll niður, en nokkru öðru.

Og stofnun íslenzka kenslustólsins við Manitobaháskóla, er svo hin mikla og síðasta tilraun hans í þjóðræknismálum Íslendinga.

Ásmundur tók mikinn þátt í undirbúningi þjóðhátíðarinnar á Íslandi 1930. Sæmdi konungur Dana hann heiðursmerki hátíðarinnar (Millenial Medal) fyrir það starf.

Árið 1939 sæmdi stjórn Íslands hans stórriddarakrossi Fálkaorðunnar með stjörnu fyrir starf hans í þágu þjóðarinnar; er það hinn mesti heiður, er þeim, sem erlendis búa, er hægt að veita.

Í sambandi við fyrsta alheimsstríðið var Ásmundur skipaður meðdómari mála þeirra, er fjölluðu um undanþágu hermanna. Þótti hann þar sem annars staðar hinn samvizkusamasti maður.

Ásmund lifa seinni kona hans, Guðrún, og þrír synir af fyrra hjónabandi, Jónas Walter, Pine Falls, Kári Vilhelm og

Grettir Leó, konsúll fyrir Ísland og Danmörku í Winnipeg. Á Íslandi er einn bróðir hins látna, Halldór.

Jarðarförin fór fram frá Fyrstu lútersku kirkju á mánudaginn, 26. október, kl. 2 e. h. Dr. Valdimar J. Eylands jarðsöng, ásamt Dr. Rúnólfi Marteinssyni. Útförina annaðist A. S. Bardal útfarstofnunin.

Með Ásmundi er einn úr hópi Vestur-Íslendinga horfinn, er framarlega stóð í fylkingu þeirra — og sem góður Íslendingur átti fáa sína líka.

*Heimskringla*

*Pétur Sigurðsson:*

# Ásmundur P. Jóhannsson

Héðan er genginn mikill athafnamaður, merkur borgari Canada, traustur Íslendingur, góður drengur og sterkur og öruggur liðsmaður okkar bindindismanna, Ásmundur Pétur Jóhannsson, fasteignasali í Winnipeg. Hann var Húnvetningur, fæddur að Haugi í Miðfirði 6. júlí 1875, andaðist 23. október 1953, rúmlega 78 ára. Hann fluttist til Canada aldamótaárið og var þá nýkvæntur fyrri konu sinni, Sigríði Jónasdóttur, frá Húki í Miðfirði. Synir þeirra þrír eru þekktir sæmdar- og dugnaðarmenn, Grettir Leo, ræðismaður Íslands og Danmerkur, Kári Vilhelm, byggingameistari, og Jónas Valdimar, leikhússtjóri í Pine Falls. Hinir bræðurnir eru báðir búsettir í Winnipeg. Seinni konu sinni, Guðrúnu Eiríksdóttur, kvæntist Ásmundur árið 1937 og varð það hlutverk hennar að búa honum bjart ævikvöld og milda sjúkdómserfiðleika hans síðustu æviárin.

Ferill þessa merka athafnamanns var óslitin sókn á brattann. Allt frá æskudögum þroskaðist hann við blessun vinnunnar, en þröng kjör, sem jafnan örva dugmanninn til átaka, til sóknar og sigurvinninga. Á bezta aldri kom hann til lands tækifæranna og tækifærin kunni hann að færa sér í nyt eins og dugmiklum drengskaparmanni sæmdi. Hann kunni að afla fjár, en einnig að gæta þess skynsamlega og þá ekki síður að verja því til góðs. Eitt sýnishornið af því, og ekki hið lakasta, var hans mikla og rausnarlega gjöf til stofnunar kennarastóls í íslenzkum fræðum við Manitobaháskóla.

Ásmundur P. Jóhannsson gerðist aldrei neitt leikfang

peninganna. — Á þeim árum umróts og styrjalda, er margir efnamenn hröpuðu úr háum tröppum velmegunar, stóð Ásmundur föstum fótum á jörð gætninnar, forsjálninnar og hins einfalda reglubundna lífs. Hann var þá eins og endranær ávallt hinn mikli starfsmaður og lifði í heimi raunveruleikans. Hann þóttist aldrei of ríkur né of góður til að leggja hönd að margvíslegum störfum, og hin minnstu störf, þótt ekki væri nema nefndarstörf í stúku hans, vann hann öll af samvizkusemi og vandvirkni. — Slíkum mönnum er sízt hætt við hröpum.

Í þessu litla blaði verður fátt talið af æviatriðum þessa dugnaðarmanns. — Saga hans mun geymast í öðrum heimildarritum. Hann lét margt til sín taka og lagði lið jöfnum höndum ýmsum menningar- og félagsmálum: þjóðræknisstarfsemi Íslendinga vestan hafs, bindindisstarfsemi þeirra, kirkjumálum, skólamálum og framfaramálum. Hann var einn af stofnendum Eimskipafélags Íslands og lengi í stjórnarnefnd þess, kom margar ferðir til Íslands og lét sér jafnant um bæði sín fósturlönd, Ísland og Canada.

Þeir bræður, Ásmundur og Gunnlaugur Jóhannsson, kaupmaður í Winnipeg, verða mér löngum meðal hinna minnisstæðustu manna, er ég kynntist þau 10 árin, sem ég dvaldi í Canada. Þeir voru glaðlyndir dugnaðarmenn, þéttir á velli og þéttir í lund. Þeir voru alltaf góðir gestir, er þeir gengu í salinn, á stúkufundum okkar í Winnipeg, og voru þar oft forustumenn. Þeir skildu vel ágæti bindindis og reglusemi, og þóttust aldrei upp úr því vaxnir að leggja slíkum málum lið. Þeir voru engir yfirborðsmenn. Ásmundur var mikill byggingameistari og hann vildi einnig byggja heilbrigt mannfélag á traustum hornsteinum: guðstrú kristinna manna, bindindi, mannkærleika og viturlegri menningarrækt. Slík var hugsjón hans og störf í samræmi við hana. Slíkra manna er gott að minnast.

*EINING, janúar* 1954

*Einar P. Jónsson:*

# Ásmundur P. Jóhannsson, sjötugur

*Þeir berjast til sigurs þó bratt sé á fót,*
*er bregðast ei skyldunnar raust;*
*hver áfangi verður þeim upprisutíð,*
*og eins þó að komið sé haust.*
*Þeir mælast þess betur að manngildi til*
*sem meir var á taugarnar reynt,*
*er sóru sinn lífstrúnað uppruna og ætt —*
*og með eldana fóru ekki leynt.*

*Þér græddist það ungum í gæfunnar leit*
*að glíma við átök og strit;*
*við lánaðar fjaðrir þú feldir þig ei,*
*né falsaðan Íslendingslit.*
*Þú trúðir því ungur og trúir því enn —*
*þó trú þín sé nokkur á fé, —*
*að æska vor sæki sinn eilífðarþrótt*
*í iðjagræn móðurlands vé.*

*Hann Ásmundur leikur sér enn þá í dag*
*með æskunnar heiði um brár;*
*til Guðmundar rakara gengur hann oft,*
*þó grá séu og auðtalin hár.*
*Þó kólgusjó tíðum hann krapt hafi siglt*
*og kannist við hryðjur og él, —*
*í kirkjunni jafnt sem við knattborð og spil*
*hann kann við sig álíka vel.*

*Að styrkjast í áformum átökin við,*
*er eðli hins heilsteypta manns,*
*því ágóðinn verður, þá sagan er sögð,*
*að síðustu afrekin hans.*
*Þess minst skyldi jafnan þó maður sé stór,*
*er málefnið stærra en hann, —*
*að sá, sem var einlægur upprunann við,*
*hinn einasta stórsigur vann.*

*Í hásumarsdýrð fjarri heimalandsbygð,*
*er hýrt um vorn síunga vin;*
*það spanst eitthvað algilt frá ómunatíð*
*í alt þetta Miðfjarðarkyn.*
*Í nýflónskudúða hins dvergsýna manns,*
*er dýrustu ræturnar skar,*
*þó leitað sé út yfir aldir og rúm*
*hann Ásmundur finst ekki þar.*

*H. E. Magnússon:*

# Ásmundur P. Jóhannsson 70 ára

*Flutt í samsæti*

*Snemma í dögun landnáms þessa lands,*
*er landinn sótti fram á ýmsum sviðum,*
*þá reyndi meira á þrek og manndóm manns,*
*að miða rétt og venjast þjóðarsiðum,*
*í samkepninnar hlaupi að halda sínu,*
*með höfuð rétt og stýra beina línu.*

*En Ásmundur var fær í flestan sjó,*
*þó fleytur hinna lentu í brimsins solli,*
*hjá honum aldrei vind úr voðum dró,*
*það vissu fáir hvað því láni olli,*
*en vilji hans í athöfn allri og starfi,*
*var ætíð sá, að vera hinn sterki og djarfi.*

*Og fáir hafa sælli siglt til lands,*
*er sólin aftangeislum roðar fjöllin,*
*með hlaðið skip af gulli gæfumanns,*
*í gegn um lífsins sjóa og boða föllin,*
*og hér í kvöld er vottur fagur fenginn,*
*að flestir kunna að meta og virða drenginn.*

*Páll Guðmundsson:*

# Til Ásmundar sjötugs

*Góð sé heilsan, glöð sé ellin,*
*gæfan fylgispök.*
*Ekki skrikult yfir svellin*
*út að hinstu vök.*

*Richard Beck:*

# Forseta ávarp

*Flutt á sjötugs afmæli ÁSMUNDAR P. JÓHANNSSONAR í Winnipeg 6. júlí* 1945

Íslenzk tunga er, eins og skáldið sagði réttilega, „orða frjósöm móðir“, auðug að orðum og orðatiltækjum, sem bæði eru fögur og hitta ágætlega í mark.

Eitt af þeim orðum í íslenzku máli, sem mér þykir hvorttveggja í senn heppilegt og fallegt, er orðið mannfagnaður. Merking þess er ykkur öllum kunn. Það er viðhaft um samkomu eins og þá, sem hér er haldin í kvöld, og það þarf engrar skýringar við. Í því kemur ljóst fram hugsun hins forna skálds, að „maður er manns gaman“, þar sem reynslan sjálf talar og áherzlan er viturlega á það lögð, hver gleðiuppspretta það er fyrir menn að koma saman og verma sig með þeim hætti við elda minninga og hugarhlýju. Jónas Hallgrímsson færði sömu hugsunina í fagran búning og aðlaðandi í kvæðinu alkunna, sem orðið er eftirlætis samkomu-söngur okkar Íslendinga: „Hvað er svo glatt sem góðra vina fundur“.

Þetta samsæti er þá einnig í orðsins sönnustu merkingu: mannfagnaður. Við erum komin hér saman til þess að gleðjast með heiðursgesti okkar þessa kvöldstund í tilefni af 70 ára afmæli hans, sem er hinn merkasti áfangi í ævi okkar jarðarbarna. En jafnframt því, sem við höfum komið saman til þess að samfagna heiðursgestinum á þessum merku tímamótum á athafnasamri ævi hans, höfum við sérstaklega komið saman til þess að minnast og þakka,

minnast langrar og margþættrar starfsemi hans í þágu sameiginlegra áhugamála okkar, og þá sérstaklega í þágu Þjóðræknisfélagsins, sem verið hefir honum um langa ævi hugstætt um annað fram, eins og verk hans á þeim vettvangi bera glöggast vitni, og þakka þá starfsemi að nokkru á verðugan hátt. Og vissulega er það bæði drengileg og holl ræktarsemi að varpa með þeim hætti fáeinum blómum á veg samferðamannanna meðan þeir eru enn í hópnum.

Það er sagt, að menn þekkist af vinum sínum. Ég held, að með sanni megi segja, að hver félagsskapur sem auðkennist að eigi litlu leyti af því, hvers konar menn og konur leggja lag sitt við hann. Það hefir verið gæfa Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi að hafa átt frá upphafi vega sinna og eiga enn góðhug og stuðning ágætra manna og kvenna í hópi okkar Íslendinga í landi hér. Minnugur þess, segi ég með skáldinu:

*„Þökk sé öllum þeim, er stóðu*
*þéttast, fastast merki hjá“.*

Allir, sem nokkuð verulega þekkja til sögu og starfsemi Þjóðræknisfélagsins, munu viðurkenna, að í hópi velunnara þess og starfsmanna skipar heiðursgestur okkar hér í kvöld mikinn heiðurssess; hann hefir sannarlega flestum fremur borið hag félagsins fyrir brjósti. En hver er áreiðanlegasti mælikvarðinn á starf manna í þágu einhvers félagsskapar? Öruggasti og sannasti mælikvarðinn í þeim efnum er: fúsleiki manna til að leggja eitthvað á sig til framgangs þeim málum, sem félagsskapurinn stefnir og vinnur að. Sé sá mælikvarði lagður á starf heiðursgestsins í þágu Þjóðræknisfélagsins, mun það vel mælast.

Eigi sæmir, að ég seilist lengra inn á landareign þess ræðumannsins, sem þessu efni hefir verið úthlutað. Hitt vil ég mega segja úr forsetastóli: Hafðu hjartans þakkir, Ásmundur Pétur Jóhannsson, fyrir trúmennsku þína við hugsjónir Þjóðræknisfélagsins, fyrir það hve fast þú stóðst á

svelli í þeim málum, „jafn til sóknar og varnar". Og þegar ég hugsa um þá starfsemi þína, koma mér í hug orð skáldsins:

*„Ég skil þá vel, er vilja Ísland sjá,*
*í veldi nýrrar þjóðmenningar skína,*
*en mér er ekki unt að skilja þá,*
*sem okkar fögru minjum vilja týna*
*og feðraminning fyrirlitning sýna*
*og varpa sorpi vafurlogann á".*

Þakka þér, Ásmundur, fyrir ágætt samstarf í stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins í meir en áratug, fyrir trygga vináttu síðan leiðir okkar lágu saman vestur hér fyrir nærri aldarfjórðungi síðan; þakka þér og þinni ágætu frú fyrir gestrisni og góðvild í garð minn og minna. Verði bjart og hlýtt um þig í kvöldskininu, traustur Íslendingur! Megi þessi kvöldstund verða þér og þínum uppspretta ljúfra og varanlegra minninga! Það er ósk okkar allra, vina ykkar. Í þeim anda erum við hér saman komin.

*Valdimar J. Eylands:*

# Afmælisræða

*Flutt á Royal Alexandra hótelinu í Winnipeg, 6. júlí, í tilefni af sjötíu ára afmæli Ásmundar P. Jóhannssonar*

Ásmundur P. Jóhannsson er sjötugur í dag. Þessi áfangi á ævileið hans er tilefni þessa fjölmenna mannfagnaðar í skrautlegasta veizlusal borgarinnar. Allir, sem til hans þekkja, munu á eitt sáttir um, að hann sé maklegur þess heiðurs, sem honum er þannig sýndur. Við erum hingað komnir úr ýmsum áttum til þess að samgleðjast honum, til þess að líta með honum í anda um farinn veg, til þess að þakka honum samfylgdina og alt sem hann hefir vel gert, og til þess að óska honum allra heilla og blessunar í framtíðinni.

Fróðum mönnum telst svo til, að á fyrsta tungi þessarar aldar hafi um sjö miljónir manna og kvenna flutzt til Canada frá Evrópu, og einnig allmargir frá Bandaríkjunum. Eins og nærri má geta hefir þessi skari verið harla sundurleitur að þjóðerni, tungutaki, menningu og áhugamálum. En þó átti allt þetta fólk nokkuð sameiginlegt. Flestir þeirra voru fátækir að fé en auðugir að starfsþreki og vonum. Allir komu þeir hingað með því augnamiði að bæta kjör sín og tryggja framtíð niðja sinna. Allur þorri þessa fólks kemur hvergi við sögu, hvorki í heimalöndum sínum né heldur í kjörlandinu nýja. Það hefir háð sína baráttu hljóðlaust, notið misjafnrar giftu og beðið marga ósigra, og margt af því er nú þegar hnigið í nafnlausa gröf. En það hefir gert sitt til þess að byggja þetta land og mynda þessa þjóð. Aðeins örfáir af öllum þessum fjölda standa höfði

hærri en allur lýður. Það eru þeir, sem með elju sinni og atorku, drenglund sinni og dáð, hafa skapað sér sérstæða sögu og reist sér minnisvarða, sem lengi munu halda minningu þeirra á lofti.

Á meðal miljónanna, sem komu frá ýmsum löndum heims til þessa lands á þessu umrædda tímabili, voru fáein hundruð manna, sem komu frá Íslandi. Aðalinnflytjendahóparnir þaðan voru komnir hingað fyrir aldamótin. Á meðal þeirra, sem komu frá Íslandi í upphafi þessa tímabils, var ungur maður norðan úr Miðfjarðardölum í Húnavatnssýslu, ásamt konu sinni. Ætla má að þessi maður hafi þegar í æsku reynzt óvenjulega framtakssamur, því áður en hann yfirgaf átthaga sína var hann búinn að læra trésmíði og hafði stundað þá iðn um nokkurra ára bil. Hann kom til Winnipeg 2. ágúst árið 1900, og vann fyrstu þrjú árin í þjónustu annara. En upp frá því tók hann að reka atvinnu sína upp á eigin reikning og farnaðist strax óvenjulega vel.

Eftir sjö ára dvöl í Canada, heimsækir hann aftur átthaga sína. Á leiðinni norður í land gistir hann hjá merkisbónda einum í þjóðbraut. Bóndi þessi er önnum kafinn að ala önn fyrir öðrum gesti, sem borið hafði að garði hans nokkru fyrr um kvöldið og gefur Vestur-Íslendingnum engan gaum, fyr en komið er undir háttatíma. Snýr hann sér þá að honum og segir hálf ólundarlega: Ójá, svo þú ert frá Ameríku, einn af þessum „agentum“ þaðan. En Ásmundur hefir aldrei verið „agent“ í þeim skilningi, sem venjulega er lagður í það orð, og bar því af sér þessa ásökun. Engu að síður ertu „agent“, svaraði bóndi önugur. Hver sá, sem eins og þú ferð úr landi til Ameríku með tvær hendur tómar, kemur svo aftur eftir fáein ár með úttroðna pyngju, verður vitandi eða óafvitandi útflutningsagent fyrir Ameríku. Lét bóndi á sér skilja, að hann teldi Ameríkufara yfirleitt týnda Íslandi, og þá sem þaðan kæmu aftur heim jafnvel hættulega menn fyrir land og þjóð.

Sex árum síðar kemur Ásmundur aftur til Íslands, og

er þá fjölskylda hans í för með honum. Gistir hann þá aftur á sama bænum sem í fyrstu ferð sinni. En nú er komið annað hljóð í bóndann. Tekur hann nú Ásmundi með hinum mesta kærleika og vottar honum virðingu sína. Hvað hafði komið fyrir, sem valdið gæti slíkri hugarfarsbreytingu hjá þessum þjóðrækna sómamanni? Jú, einn merkilegasti viðburðurinn í sjálfstæðisbaráttu Íslendinga var fram kominn. Eimskipafélag Íslands hafði verið stofnað. Nokkrir atkvæðamenn meðal Vestur-Íslendinga höfðu stutt þetta fyrirtæki svo drengilega með ráðum og dáð, að öll þjóðin hafði veitt þeim eftirtekt, og Vestur-Íslendingum þá um leið í heild sinni. Ásmundur P. Jóhannsson var einn þeirra manna, sem lögðu fram 10.000 krónur hver í stofnsjóð félagsins, og gerðist meðlimur nefndar, sem tók að sér að safna fé hér vestra þessu þjóðþrifafyrirtæki til styrktar. Mr. Jón J. Bíldfell, sem hér er staddur í kvöld, tók einnig giftudrjúgan þátt í þessu heillavænlega starfi að stofna Eimskipafélagið.

Í sambandi við þetta mál leyfi ég mér að tilfæra ummæli úr sögu Eimskipafélagsins, sem prentuð var fyrir nokkrum árum: „Þátttaka Vestur-Íslendinga í stofnun Eimskipafélagsins er fegursti og stærsti vottur um þjóðrækni þeirra og hugarþel til gamla landsins, sem enn hefir sýndur verið. Langflestir þeirra, sem lögðu fram fé til fyrirtækisins í fyrstu bjuggust ekki við því að hljóta neinn arð af fé sínu. Heill og velferð ættjarðarinnar réð eingöngu gerðum þeirra".

Ég hefi drepið á þessar tvær fyrstu ferðir Ásmundar til Íslands, og hina skyndilegu hugarfarsbreytingu bóndans, vegna þess að þar er um táknrænt atvik að ræða. Þessi maður var ekki sá eini, sem skipti um skoðun á Vestur-Íslendingum um þetta leyti, heldur þjóðin öll. Þetta breytta hugarfar heimaþjóðarinnar gagnvart okkur stafaði vissulega ekki af afrekum fjöldans okkar á meðal, heldur af dugnaði, framtakssemi og fórnfýsi einstakra manna eins og heiðursgests okkar hér í kvöld. Þess vegna stöndum við allir Vestur-Íslendingar í mikilli þakkarskuld við hann, og

þá aðra, sem stóðu í brjóstfylkingu framtaksmanna á meðal okkar á þeim árum. Ásmundur P. Jóhannsson er vissulega einn þeirra manna, sem ávallt hefir borið hag Íslands fyrir brjósti, og þá ekki síður sóma þjóðarbrotsins hér. Þau fjörutíu og fimm ár, sem hann hefir dvalið hér vestra, hefir hann heimsótt Ísland tíu sinnum, og oftast hafa einhverjir meðlimir fjölskyldunnar verið í för með honum. Síðustu ferð sína heim fór hann árið 1940, þá sem gestur Eimskipafélagsins. Slíkar ferðir hafa mikið gildi, ekki aðeins fyrir þann eða þá, sem fara þær, heldur einnig fyrir okkur hina, sem heima sitjum. Þeir, sem eins og Ásmundur og fjölskylda hans, bera á ferðum sínum orð kynningar og kærleika á milli landanna vinna þannig merkilegt þjóðræknisstarf, sem ber ávöxt beggja megin hafsins.

Sumir menn eru vel kristnir á sunnudögum, en ella miður. Á sama hátt eru sumir menn þjóðræknir, þegar þeir sækja Ísland heim, eða tala við gesti frá Íslandi, en miður í hversdagslífinu hér vestra. En heiðursgestur okkar í kvöld, verður aldrei með réttu ásakaður um tvídrægni í þessum málum. Hann hefir ávalt verið, er og verður á meðan hann dregur andann sannur Íslendingur, ekki síður í Winnipeg en í Reykjavík. Sál hans snýr óskipt að Íslandi, og að því fyrst fyrst og fremst sem íslenzkt er hér í Canada. Hér gerist hann snemma á árum einn af forvígismönnum að stofnun Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi. Hann starfar í stjórnarnefnd þess næstum tuttugu ár, af rúmlega tuttugu og fimm, sem það hefir verið við líði. Hann hefir á ýmsum tímum skipað ýms helztu embætti í þessum félagsskap. Á dvalarárum mínum hér hefi ég átt nána samvinnu með honum í félaginu, og er mér ljúft að bera vott um það, að hann hefir reynzt því hinn ötulasti og atkvæðamesti starfsmaður, samvinnulipur, en um fram alt heill og einlægur. Að vísu fanst okkur sumum, sem lítið skyn berum á fjármál, að hann halda stundum allþétt um pyngju félagsins, er hann var gjaldkeri þess. En það stendur í sambandi við

annan meginþátt í upplagi hans og skapgerð: sparsemi hans og hina íslenzku búhyggju. Þeir, sem sneyddir eru þessum eiginleikum, kunna oft ekki að meta þá, en misskilja svo þá og öfunda, sem betur búnast en þeim sjálfum. Um kænsku Ásmundar í viðskiptum, vil ég leyfa mér að tilfæra örstutta gamansögu, sem ég heyrði fyrir mörgum árum. Ég sel hana ekki dýrari en ég keypti hana; má hver trúa sem vill, en hinir láta hana liggja á milli hluta. Fyrst vil ég taka það fram, sem allir vita þó, að Ásmundur hefir ávallt verið hollur þegn kjörlands síns og hefir leyst allar sínar borgaralegu skyldur af hendi með samvizkusemi. En í þetta sinn, samkvæmt sögunni, varð honum sú skyssa á að keyra áfram yfir stræti, þrátt fyrir ljósmerki, sem sagði STOP. En hann hafði ekki lengi farið, er flauta lögregluþjóns hvein við hlið hans, og hann varð að aka upp að gangstéttinni og stanza. Lögregluþjónninn setti upp embættissvip, tók upp vasabók sína og spurði harðneskjulega: Hvað heitið þér? Ásmundur Pétur Jóhannsson, var svarið. Þjónn réttvísinnar hváði, en fékk aftur sama svarið. Bandaði hann þá hendinni óþolinmóðlega og sagði: Farðu þá, en láttu þetta ekki koma fyrir aftur. Ásmundur sigldi svo sinn sjó, auðvitað glaður yfir að hafa náð þeim tilgangi sínum að þurfa ekki að borga sektina.

Ég leyfi mér að fullyrða að sparsemi og hagsýni Ásmundar í fjármálum hefir komið Þjóðræknisfélaginu að góðu haldi. Vafamál er það í mínum huga, hvort hið vinsæla og fjöllesna Tímarit félagsins hefði haldizt við fram á þennan dag, hefði það ekki notið Ásmundar að um margra ára skeið til að líta eftir fjárhag þess og safna auglýsingum fyrir það. Hann hefir verið lífið og sálin í starfi Laugardagsskólans um margra ára bil. En hann er sú stofnun, sem framtíð þjóðræknisstarfseminnar hér vestra hlýtur fyrst og fremst að byggjast á. Þótt það sé ef til vill ekki í verkahring mínum hér í kvöld, að minnast á hið mikla og óeigingjarna starf heiðursgestsins við fyrirtækið Columbia Press, en

einkum þó vikublaðið Lögberg, get ég ekki látið þess ógetið. Íslenzku blöðin okkar hér eru þær meginstoðir undir alla þjóðræknisstarfsemi okkar hér, að hver sem starfar að eflingu þeirra eins ósleitilega og Ásmundur hefir gert hvað Lögberg snertir, á skilið að hljóta óskiptar þakkir allra þeirra, sem láta sig íslenzka menningu í Vesturheimi nokkru varða.

Hér er líklega ekki stund eða staður til að tala um Ásmund sem mannvin, góðgerðamann, tryggan vin vina sinna, eða sem stuðningsmann kirkju sinnar. Þessir þættir í skapgerð hans og starfi teljast venjulega ekki til þjóðrækni, en þjóðrækni hans er umræðuefni mitt í kvöld. En það er mjótt á milli þjóðrækni og guðrækni, eða á milli þjóðrækni og manndóms. En Ásmundur hefir reynzt okkur alt í senn: þjóðrækinn og guðrækinn manndómsmaður.

Við þökkum þér svo að lokum, kæri heiðursgestur og samverkamaður í menningarmálum okkar fyrir starfið allt, sem þú hefir unnið svo vel. Við finnum til þess, er við lítum yfir æviferil þinn að því leyti, sem okkur er hann kunnur, að þú hefir verið gæfumaður. Gæfa þín er fólkin í atgjörvi þínu, og í þeirri handleiðslu Guðs, sem þú hefir notið um langa ævi. En gæfa þín hefir einnig verið gæfa og gagn Íslands, eins og stjórn þess hefir líka viðurkennt með því að sæma þig hinu æðsta heiðursmerki, sem hún veitir almennum borgurum fyrir afburða starf. Og þetta samsæti í kvöld á að vera þér vottur þess, að gæfa þín hefir einnig verið að nokkru leyti einnig gæfa okkar Vestur-Íslendinga. Fyrir það viljum vér nú heiðra þig og þakka þér. Guð blessi þig og þína. Guð blessi Ísland. Guð blessi Canada, landið, sem hefir farið svo vel með þig, og fer vel með okkur öll.



**Frú Sigríður Jóhannsson**

Fædd: 17. september 1878

Dáin: 1. október 1934

*Einar P. Jónsson:*

# Frú Sigríður Jóhannsson látin

Síðastliðið mánudagskveld, 1. október, lézt á Almenna sjúkrahúsinu hér í borginni, frú Sigríður Jóhannsson, kona Ásmundar P. Jóhannssonar byggingameistara að 910 Palmerston Ave., eftir langa og stranga legu. Innvortis meinsemd varð henni að bana. Frú Sigríður var fædd á Húki í Miðfirði í Húnaþingi þann 17. dag septembermánaðar árið 1878. Voru foreldrar hennar þau Jónas Guðmundsson og Helga Stefánsdóttir, er þar bjuggu. Þann 9. júní 1899 giftist Sigríður eftirlifandi eiginmanni sínum, Ásmundi P. Jóhannssyni, og fluttist með honum vestur um haf; komu þau hjón til Winnipeg 2. ágúst árið 1900, og þar stóð heimili þeirra upp frá því.

Auk eiginmanns síns, lætur frú Sigríður eftir sig þrjá mannvænlega sonu, Jónas Valdimar, kvæntan Kristínu Thorvardson, Kára Vilhelm, kvæntan Maríu Matthews og Gretti Leó, kvæntan Lalah Dowers, af amerískum stofni. Þrjú systkini frú Sigríðar eru á lífi á Íslandi: Jónas í Reykjavík, Stefán bóndi á föðurleifð hennar, Húki, og Arndís, gift Jónasi Þorsteinssyni, bónda á Oddsstöðum í Hrútafirði.

Frú Sigríður Jóhannsson hafði átt við langvarandi vanheilsu að búa; jafnvel svo tugum ára skipti; höfðu þó allar hugsanlegar tilraunir, er í mannlegu valdi stóðu, verið gerðar heima og erlendis, til að afla henni heilsubótar; var það áköf höfuðveiki, er að henni svarf um langt skeið og olli henni nokkurrar sjóndepru; hún var tápgeðjuð kona með fágætum, og bar þrautir sínar sem sönn, norræn hetja.

Jafnóðum og af henni bráði, eða höfuðveikiköstunum linti, tók hún upp sína meðfæddu gleði og varð umhverfi hennar þá sólbjart og unaðsríkt; hún var húsmóðir í þess orðs fylztu og sönnustu merkingu, manni sínum hollráður og trúr förunautur og sonum sínum innileg móðir; um hana má svipað segja og Bergþóru konu Njáls, að hún var drengur góður.

Verksvið frú Sigríðar lá að langmestu leyti innan vébanda heimilisins; það elskaði hún mest og þar undi hún bezt; hún var listræn kona að eðlisfari, næm á fegurð íslenzkra ljóða og naut ósegjanlegs yndis af söng. Vinfastari manneskju en frú Sigríði, get ég tæpast hugsað mér; um það get ég dæmt af eigin reynd, eftir frekra tuttugu ára umgengni við hana og heimili hennar; sömu sögu munu þeir aðrir hafa að segja, er nokkur veruleg kynni höfðu af henni.

Með fráfalli frú Sigríðar er eigi aðeins heitur og þungur harmur kveðinn að eiginmanni hennar, sonum og öðru sifjaliði, heldur og þeim öðrum, er því láni áttu að fagna að eiga hana að vini. Um minningu hennar verður bjart, eins og þeirra annara, er einlægir voru við málstað samferðafólksins — og lífsins.

Jarðarför frú Sigríðar fór fram á fimtudaginn 4. október, hófst með húskveðju á heimilinu, 910 Palmerston, kl. 1.45 e. h., flutti séra Rúnólfur Marteinsson þar kveðjuorð, en frá Fyrstu lútersku kirkju klukkan hálf þrjú. Stýrði sóknarpresturinn, Dr. B. B. Jónsson kveðjuathöfninni í kirkjunni, sem og í Brookside grafreit. Jarðarförin fór fram undir umsjón A. S. Bardal.

*Lögberg, 4. október,* 1934

*Björn B. Jónsson:*

# Við útför frú Sigríðar Jóhannsson

*Guð vonarinnar fylli yður*
*öllum fögnuði og friði í trúnni,*
*svo að þér séuð auðugir að voninni*
*í krafti heilags anda.* —Róm. 15:13.

Guð hinnar eilífu vonar! Í hans nafni og með hans tilstyrk hverfum vér í dag út úr myrkri mikillar sorgar inn í ljósbirtu mikillar vonar. Vér endurtökum hina postullegu fyrirbæn og biðjum fyrir syrgjendunum hér: „Guð vonarinnar fylli yður öllum fögnuði og friði í trúnni, svo að þér séuð *auðugir að voninni* í krafti heilags anda“.

Vér erum fæstir auðugir að jarðnesku fé. Enda kæmi oss veraldarinnar auður að litlu haldi, þegar sorgin og dauðinn sækja oss heim. Á dauðastund og við ástvina-missi gagnar oss engin auðlegð, önnur en auðlegð vonarinnar. Guði sé lof, sem yður hefir gefið þann himneska auð.

*„Þeir vita það, sem tala mest um trúna,*
*að trú er von, og sá sem hana gaf,*
*hann gaf oss bifröst lífsins, léttu brúna,*
*sem liggur yfir efans svarta haf,*
*gaf hægindið oss hugann fyrir lúna,*
*í hálkum þankans traustan göngustaf; —*
*og því er hver einn bezt til ferða búinn,*
*ef bilar hann ei vonin eða trúin.“*

Vor Guð er vonarinnar Guð; vor trú er vonarinnar trú. Vor fræðari og frelsari er boðberi hinnar eilífu vonar. Í honum höfum vér von um eilíft líf. Orðin hans eru huggun hjartna vorra, orðin hans um himneskan föður, um himneska ættjörð, um fyrirbúin híbýli guðs barna í heimkynnum eilífrar sælu, um eilíft líf allra góðra manna og samfundi allra þeirra eftir dauðann, sem hér á jörðu hafa dvalið saman í kærleika.

Þegar haustar að hér í jarðneskum bygðum, þegar sólin missir birtu sinnar á drungalegum dögum, þegar skammdegi lífsins fer í hönd og dauðinn stendur fyrir dyrum, þá andar Guð vonarinnar heilögum anda til vor gegnum myrkrin, og ljósið frá jólunum og Jesú fyllir oss fögnuði og friði.

Á skilnaðarstundunum sáru, slíkum sem þessi er, er vonin vor dýrmæti auður. Í voninni guðigefnu trúum vér því, að:

*„Þótt vér sjáumst oftar eigi*
*undir sól, er skín oss hér,*
*á þeim mikla dýrðardegi*
*Drottins aftur finnumst vér.*

*Þótt vér hljótum hér að kveðja*
*hjartans vini kærstu þrátt,*
*indæl von sú oss má gleðja,*
*aftur heilsum vér þeim brátt.*

*Hrelda sál, það haf í minni*
*harma-kveðju stundum á:*
*Aldrei mæzt í síðsta sinni*
*sannir Jesú vinir fá.“*

Er nú skal kvödd með hinztu kveðju sú hin góða systir vor, sem stundin er helguð, þá biðjum allir, að Guð vonarinnar fylli oss öllum fögnuði og friði í trúnni, svo að vér séum auðugir að voninni í krafti heilags anda.

Sigríður Jónasdóttir Jóhannsson var fædd að Húki í Miðfirði á Íslandi 17. dag septembermánaðar, ár 1878. Foreldrar hennar voru Jónas Guðmundsson, bóndi að Húki, og kona hans Helga Stefánsdóttir. Systkini á hún þrjú á lífi, öll á Íslandi: Jónas Jónasson, áður hér í Winnipeg, nú í Reykjavík; Stefán Jónasson, nú bóndi á Húki í Miðfirði; og Arndís Jónasdóttir, eiginkona Jónasar Þorsteinssonar, bónda á Oddstöðum í Hrútafirði.

Áriði 1899, 9. júní, giftist Sigríður Jónasdóttir vorum góðkunna samborgara, Ásmundi Pétri Jóhannssyni á Haugi í Miðfirði. Næsta ár, aldamótaárið, héldu hin ungu hjón alfarin til Vesturheims. Þau komu til Winnipeg Þjóðhátíðardaginn 2. ágúst og hafa búið hér ávalt síðan, 34 ár; en öll samleið þeirra var 35 ár. Var þeirra sambúð ástúðleg og hamingjusöm; heimilið var friðsælt og hamingjuríkt, og með vaxandi velmegun orðið ríkmannlegt höfðingjasetur.

Samvistardagur þeirra hjóna var all-langur orðinn — 35 ár — og allur var dagurinn góður frá morgni til kvölds, því þótt á þrekið reyndi á fyrri árum í erfiðri framsóknarbaráttu í nýju og ókunnu landi og á þolinmæðina reyndi löngum undir krossi sjúkdómanna, var samúðarandi og eining hjónanna svo sem sól og sumar öllu þeirra lífi. Samvistin jarðneska er nú á enda. Og *honum,* þrekmanninum mikla, er það gleði, þrátt fyrir söknuðinn sára, að það er á *hans* herðar, en ekki *hennar,* að byrðin þunga er lögð, að vera einmana eftir. Svo mjög sem hann reyndi hér á samleiðinni að létta allar hennar byrðar, telur hann það gæfu, að fá að bera sjálfur skilnaðarkrossinn og er þakklátur fyrir það, að við því hlífði forsjónin henni. Get ég nú tileinkað hjarta hans þessi kveðjuorð:

*„Far vel, far vel, ég trúi' á Drottins dóm.*
*Hann dæmir þér, mín ljúfa, eilíft hrós;*
*en ég — ég missi' ei Guðs míns beztu gjöf*
*þó gráti' ég nú, við sjáumst bak við gröf."*

Þau hjónin, Ásmundur og Sigríður, eignuðust þrjú sveinbörn. Eru þeir bræður nú allir uppkomnir, mannvænlegir menn allir og vel kvæntir. Hafa þeir alla stund, þótt eigin heimili eigi hver um sig, verið sem heimamenn í foreldrahúsum sínum, svo ástríkt og náið, sem verið hefir samband fjölskyldunnar. Heita synirnir: Jónas Valdimar, Kári Vilhelm og Grettir Leó.

*„Gráta skal barn*
*góða móður:*
*Hún er ímynd Guðs elsku.*
*En huggast skal Guðs barn,*
*því á himni lifir*
*Guð þess góðu móður.“*

Það eru ekki nánustu ástvinir einir, sem með lotningu drúpa höfði á þessari kveðjustund. Hin látna var að verðleikum virt af öllum, er henni til hlítar kyntust. Að sönnu var heimilið hennar hjartastöð. Hún var fremur öllu hin ágæta húsmóðir. Þar var hennar heimur. Það var hennar líf. En út í frá naut hún einnig vinsælda og virðingar. Hún var greind kona, listræn og prúð í allri framkomu. Í skoðunum var hún jafnan sjálfstæð og stefnuföst. Hún var trúföst og frábærlega trygglynd. Hógvær var hún í hvívetna, en þó glaðlynd og skemtileg. Hún átti um tuttugu ára skeið við bilaða heilsu að búa, en bar þær raunir sínar með þreki og stillingu. Hún var fríð kona sýnum og tíguleg:

*„Fríð í sjón og horsk í hjarta,*
*höfðingslund af enni skein;*
*svipur, athöfn — alt nam skarta,*
*af því sálin var svo hrein.“*

Hin látna var einlæg trúkona. Vér sem í þessu húsi eigum samfundi á helgum dögum til þess að tilbiðja Guð og

dýrka hann, minnumst þess, að þótt sjóndepra hamlaði því, að hún fengi haft fullkomin not af bókinni, þá kunni hún sálmana og messuform svo utan bókar, að hún gat tekið bæði með hjarta og tungu þátt í guðsdýrkun safnaðarins. Mér er kunnugt um, hve glöð og róleg hún hugsaði til burtfarar sinnar af þessum heimi og hve hún á banabeði vissi sig umvafða ástarörmum hins lifanda Guðs og fól öndu sína vonglöð og sæl í hendur Guðs síns og frelsara.

*„Var Sigríður*
*í veiku holdi*
*föst í Kristi krafti*
*og krossi signd;*
*meðal hans heilögu*
*horskur svanni*
*gekk um dauðans dyr*
*til dýrðar-heima.“*

Ég minnist þess, að þegar ég fyrir rúmu ári síðan kom heim til landsins, sem er jarðnesk ættjörð okkar flestra, var það frú Sigríður Jóhannsson, sem fyrst allra varð til þess, ásamt syni sínum, að bjóða okkur velkomin heim á ættjörðina. Maðurinn hennar kom eftir litla stund, hafði verið að ljúka vandasömum skyldustörfum, og vorum við þar svo saman, lítill vinahópur.

Nú vil ég í dag á þessum stað í Jesú nafni segja hana velkomna heim á ættjörðina himnesku. Maðurinn hennar, synirnir hennar, eiga skyldustörfum enn að sinna hér um lengri eða skemmri tíma og minningin hennar mun ávalt lýsa þeim og leiða þá til þess, sem gott er og göfugmannlegt. Svo kemur ástvinahópurinn saman heima á ættjörð guðs barna á himnum.

*„Trúfasta, hreina, sæla sál,*
*svifin til lífsins stranda.*
*Guðs orð var hér þitt hjartans mál*
*í hverri neyð og vanda.*
*Svali nú ljúfust lífsins orð*
*á lifandi manna sælu-storð*
*um eilífð þínum anda.“*

Með þakklæti, virðing og söknuði kveðjum vér þig öll í Jesú nafni.

*Rúnólfur Marteinsson:*

# Frú Sigríður Jóhannsson

*Kveðjuorð á heimili hennar, 4. okt., 1934*

Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn (D.S. 130:1).

*„Alt sem á hjarta ber í sér þrá*
*upp í söngvanna ríki;*
*herskarar Drottins sálirnar sjá*
*syngjandi engla í líki.*

*Veikasta strengnum berst ómur af*
*upp til sólkonungs hallar;*
*rétt eins og lindir renna í haf*
*raddir þar sameinast allar.*

*Alt á að mætast á efsta stað,*
*alt að samhljómnum stefnir.*
*Hvern þann sem vann þar um æfi að*
*eilífa lífsbókin nefnir“.*

Þrá mannssálarinnar eftir söng er túlkuð í þessu ljóði. Söngur þeirrar þrár fyllir jörðina og hljómar til himins. Í söng er ein hin mesta fegurð, er mennirnir þekkja. Öll fegurð bendir til himins. Fegurð söngsins á þar ekki sízt hlut að máli, því söngur er oss sagt, að sé einn tilkomumesti þátturinn í dýrð himnanna.

Hún sem vér kveðjum í dag, frú Sigríður Jóhannsson, átti þátt í þessari fegurð. Hún hafði hið mesta yndi af söng, hafði næman og góðan smekk fyrir söng, elskaði söng og bað

um söng við útför sína. Í söngnum leitaði hugur hennar til hæða, enda eitthvað guðdómlegt við fagran söng. Hann er samverkamaður Guðs og eðlilega leiðir að hinu al-góða.

Orðið, sem ég hefi valið að umhugsunarefni á þessari stundu, er úr söngvasafni Ísraelsmanna. Versið er hljómbrot úr trúarsöng leitandi sálar. Jesús sagði: „Sá finnur, sem leitar". Það reyndist höfundi textans sannleikur. Hann segir: „Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn". Hann hafði oft kallað og oft fengið andsvar. Hann vissi á hvern hann trúði, og vissi því hvert skyldi leita. Þessi orð eru ávöxtur af lífsreynslu hans. Við annað tækifæri túlkaði hann sömu sannfæringuna með því að segja: „Skyldi sá ekki heyra, sem eyrað hefir plantað?"

Í sál hans höfðu tveir tónar orðið að samhljóm, söngur himnanna og söngur jarðar. Til þess er sérhver sál sköpuð, að sá samhljómur megi verða. Guð og maður eiga að mætast í hverri einustu sál á jörðu. Það mót nefnum vér trúarbrögð. Grænu laufblöðin á jörðinni leitast við að snúa sér til sólar. Guð hefir gætt sérhvern mann þeim eiginleikum, að hann geti verið blóm, sem snýr að sól, „sól réttlætis með græðslu undir vængjum sér", sól alheimsins, sem vill „lýsa sérhverjum manni, sem í heiminn er kominn". Eins og sól mætir jörð í blóminu, eins mætir Guð manninum í sálarlífinu. Þar vill hann búa og blessa. Trúin er það að veita honum viðtöku, breiða faðminn á móti honum, leyfa honum að ná til instu hjartatauganna. Fáist það, verður Guð mannlegur samhljómur í sálunni. Þetta litla stef: „Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn", sýnir og sannar þennan samhljóm.

Oftast er víst hugsað um þetta stef sem neyðaróp, frá trúaðri sál að vísu, en samt neyðaróp. Með öðrum orðum, menn hugsa um djúpið sem djúp sorga. Sjálfsagt er það, að sérhver maður, sem í neyð er staddur, leiti þangað sem hann veit bezta hjálp að fá. Hann leitar þangað, sem hann vissi athvarfið meðan velgengnin brosti við honum. Má

vera, að hann hafi ekki ætíð notað þá þekkingu, en hann hefði ekki leitað þangað í neyðinni nema fyrir það, að hann vissi athvarfið þar áður. Djúpið, sem hér um ræðir, verður því að tákna meira en aðeins djúp sorga. Vér skulum stuttlega athuga hvaða djúp kemur hér að réttu lagi til greina.

Fyrst vil ég nefna djúp einlægni. Saklaust barn á einlægni. Lífsreynslan flytur oss oft freistingar, sem vilja draga úr þessu einkenni góðra barna; en einlægnin er eins nauðsynleg og blessunarrík í þroska og elli eins og hún var á bernskuskeiði. Hana, sem vér nú kveðjum, þekti ég ekki þegar hún var barn, en það vissi ég, að hún átti einlægnina, djúpa og sterka, á því skeiði lífsins, sem vanalega mest reynir á hana. Ætli einlægnin hafi ekki verið lífsóðal hennar alla æfi, bæði í bernsku og þroska. Úr djúpinu ákallar sálin Drottinn, djúpi einlægnarinnar, hvort sem það er barn við móðurkné eða fullorðinn maður staddur í hafróti lífsins. Sú leit er fögur, enda er leitin eftir Guði í raun og veru ekki til án einlægni.

Þá vil ég nefna djúp lífsreynslunnar. Þar sem um langa lífsreynslu er að ræða, er hún ofin saman af mörgum þáttum. Þar kemur til greina baráttan fyrir hinu góða, sem mönnum tekst mjög misjafnlega. Þar fléttast saman sorg og gleði, fögnuður og vonbrigði, sigur og ósigur. Sumt mistekst, annað hepnast; menn syrgja og fá huggun, syndga og fá fyrirgefning. Æfileiðin er stundum sögð að vera sérstaklega slétt og greiðfær, í öðrum tilfellum grýtt og glóðþrungin, en ávalt mun þar þó vera eitthvað af sólskini gleðinnar og dimmu sársaukans, því

*„Guð það hentast heimi fann*
*það hið blíða blanda stríðu;*
*alt er gott, sem gjörði hann“.*

Enginn fer varhluta af erfiðleikum lífsins, nema þá að leiðin sé of slétt og það er einn hinn mesti af öllum erfið-

leikunum. En í baráttu lífsins reynir mikið á, hve vel menn hafa verið búnir undir, hve gott hefir verið veganestið frá æskustundunum, hve mikið af grundvallarlegum gæðum menn hafa fengið að gjöf og þroskað hjá sér.

Frú Jóhannsson átti einstaklega hamingjusama æfi: farsælar æskustundir, nytsamt starfsskeið, dásamlega ánægjulegt heimili með eiginmanni og börnum. Inn í lífsreynsluna flutti hún auðæfi alvöru, dugnaðar, hygginda, frábærrar umhyggjusemi, óbilandi þreks, hjartans einlægni og sannrar kristinnar trúar. Hún lagði haga hönd á skyldustörf æfinnar. Manninum sínum var hún hjástoð í öllu. Heimilið sitt annaðist hún með snild. Alúð einkendi alla framkomu hennar. Smekkvís var hún í hvívetna.

Með þessu er bent á dýrðlega lífsreynslu, þar sem unnið var að því, sem skyldan bauð, eftir vilja Guðs. Örðugleikarnir voru margir, mikið til að beita sér við. Líf Íslendinga, í heild, er glíma við hörð æfikjör. Ísland flytur börnum sínum mikið af harðneskju og mikið af tignarlegri uppörfun.

*„Þar fóstraðist þjóð vor*
*við elds og ísa mein*
*og áhrif af náttúrunni háu“.*

Á þetta mikinn þátt í að mynda skapgerð Íslendinga. Auðæfi Íslands í þessum skilningi átti hún í ríkum mæli. Með þeim einkennum varð líf hennar sigurför. Það var aðeins eitt, sem lamaði, en það var biluð heilsa. Hún bar þann kross um langt skeið með frábæru þreki. Alt, sem mannlegur kraftur gat veitt, var gjört til að vinna bug á þessum erfiðleika. Nokkur bót fékst stundum, en sigur í þessu efni á jarðneska sviðinu fékst ekki; en líf hennar var samt sigur, sigur heilbrigðrar lífsreynslu, sigur hins góða og göfuga, sigur kristinnar trúar. „Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn“, gat hún sagt og sagði; djúpi þeirrar lífsreynslu,

sem ávaxtaði pundið, sem henni var gefið; djúpi þeirrar lífsreyslu, sem reyndist trú alt til dauðans.

Í þriðja lagi vil ég nefna djúp elskunnar. Þar stöndum vér andspænis hinu „allra helgasta“. „Drag skó þína af fótum þér, því staðurinn, sem þú stendur á er heilög jörð“, var sagt við Móse. „En nú varir trú, von og kærleikur, þetta þrent, en þeirra er kærleikurinn mestur“, segir Páll. „Elskan er al-lífsins rót“, segir sænska skáldið Tegner. Elskan er fegursti helgidómur og dýrmætasti gimsteinn lífsins. „Hver sem elskar er af Guði fæddur, því Guð er kærleikur“. Það hefir Jesús sannað með kærleiksfórn sinni fyrir synduga menn. Í gær og í dag og að eilífu er hann hinn sami, eilífi kærleikur.

*„Kœrleikans ímyndin fegursta, frelsarinn blíður,*
*faðminn Guðs miskunnar enn sem fyr hjörtunum býður.*
*Hvíld finnur hér hver sá, er þjakaður er,*
*huggun sá hrelling er líður“.*

Í heimi kærleikans lifði hún, sem vér nú kveðjum. Hún elskaði Guð af einlægu hjarta. Manni sínum, drengjum og öðrum nánustu ástvinum unni hún hugástum. Fyrir þann hóp fórnaði hún fúslega öllum beztu lífskröftunum. Kærleika sinn sýndi hún ennfremur í því að hjálpa þeim, sem bágt áttu. Á altari elskunnar í sálu hennar voru ljósin ávalt logandi. Frá djúpi elskunnar hefir andvarpið, sem vér höfum verið að athuga, fegurstan hljóm: „Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn“.

Ástvinir hinnar látnu, nú eruð þér staddir í djúpi sorgar og saknaðar; en saman við sorgina blandast það, sem henni var kærast. Ég veit, að hugsun yðar er um hana, en ekki um yður sjálf. Þér eruð þá líka stödd í djúpi kærleikans. Af öllu hjarta þakkið þér fyrir elskuna hennar, alla hina yndislegu umönnun hennar, alt hið fagra og guðdóm-

lega, sem hún hjálpaði yður til að eignast. Í hjartans einlægni og alvöru takið þér undir með æfitónum hennar: Úr djúpinu ákalla ég þig, Drottinn“.

*„Far vel, far vel! Vort lán er lauf í vindi*
*og lífsins trú vor eina raunabót.*
*Far vel og sæl, því elska, dygð og yndi*
*á eilíft líf þó skifta sýnist rót“.*

# Föðurætt: Ásmundur P. Jóhannsson

1. Ólafur herkonungur, hans kona Auður djúpúðga.
2. Þorsteinn rauður, konungur Skota, Ólafsson.
3. Ólafur feilan í Hvammi Þorsteinsson.
4. Álfdís bareyska Ólafsdóttir.
5. Þórður Gellir (965).
6. Eyjólfur Þórðarson, grá. (skírður 100 ára).
7. Þorkell Eyjólfsson, drukknaði 1026, hans kona Guðrún Ósvífursdóttir.
8. Gellir Þorkelsson, drukknaði 1073.
9. Þorgils Gellisson, drukknaði ungur.
10. Húnbogi Þorgilsson bóndi á Skarði, Skarðsströnd, kona Ingvildur Hauksdóttir.
11, Snorri Húnbogason lögsögumaður á Skarði, kona Ingvildur Atladóttir.
12. Narfi Snorrason (1284), kona Guðrún Þórðardóttir Oddssonar í Haga, Barðastr.
13. Skarðs-Snorri Narfason prestur á Skarði, kona Sæunn Þorsteinsdóttir.
14. Narfi Snorrason, Skarði, kona Valgerður Ketilsdóttir lögsögumanns Hítardal.
15. Snorri Narfason, lögsögumaður, Skarði, dáinn 1392. Kona hans úr Árnessýslu.
16. Ormur Snorrason, lögsögumaður og hirðstjóri, kona Ólöf Jónsdóttir.
17, Guttormur Ormsson í Þykkvaskógi, veginn af Kirkju-Þorsteini.
18. Loftur Guttormsson ríki á Möðruvöllum.
19. Ormur Loftson hirðstjóri, kona Sólveig Þorleifsdóttir hirðstjóra frá Skarði.

20. Loftur Ormsson sýslumaður, d. 1476, kona Steinunn Gunnarsdóttir Sælingsdalstungu.
21. Pétur Loftsson sýslumaður, d. 1540, kona Sigr. Þorsteinsdóttir frá Reyni.
22. Loftur Pétursson prestur í Víðidalstg., f. 1526, kona Þuríður Arngrímsdóttir.
23. Árni Loftsson, Sælingdalstungu, kona Helga Guðmundsdóttir frá Hvoli.
24. Loftur Árnason, Sælingsdalstungu, kona Þórunn Bjarnadóttir frá Brjánslæk.
25. Jón Loftsson, prófastur í Belgsdal, f. 1657, d. 1710, kona Sigþrúður Einarsdóttir prests í Eydölum.
26. Jón Jónsson, prestur í Garpsdal, vígður 1688, d. 1735, kona Kristín Ólafsdóttir af Akraætt.
27. Sigþrúður Jónsdóttir, blind alla æfi, hennar maður Jón Gíslason.
28. Bjarni Jónsson, prestur að Undirfelli, dáinn 1809, kona Sigríður Jóhannsdóttir Kristjánssonar frá Mælifelli.
29. Bjarni Bjarnason, bóndi á Bjargi.
30. Ásmundur Bjarnason, bóndi á Skeggjastöðum, kona Magdalena Guðmundsdóttir.
31. Jóhann Ásmundsson bóndi á Haugi, kona Guðrún Gunnlaugsdóttir.
32. Ásmundur Pétur Jóhannsson, húsameistari, Winnipeg, F. 6. júlí 1875 — D. 23. október 1953.

# Móðurætt: Ásmundur P. Jóhannsson

1. Ólafur hvíti herkonungur í Dyflinni á Írlandi, kona Auður djúpúðga landnámskona Ketilsdóttir flatnefs.
2. Þorsteinn rauður Skotakonungur, kona Þuríður Eyvindardóttir austmanns.
3. Ólafur feilan höfðingi í Hvammi í Dölum, kona Álfdís hin bareyska Konálsdóttir.
4. Þórður gellir höfðingi í Hvammi, sem fyrstur setti fjórðungsþing, kona Hróðný Miðfjarðar-Skeggjadóttir.
5. Eyjólfur grái goðorðsmaður. Skírður gamall árið 1000.
6. Þorkell Eyjólfsson höfðingi á Helgafelli, druknaði 1026, kona Guðrún Ósvífursdóttir.
7. Gellir Þorkelsson höfðingi á Helgafelli, dáinn í Hróarskeldu, Danmörku 1073.
8. Þorgils Gellisson, druknaði ungur á Breiðafirði, konan af ætt Síðu-Halls.
9. Húnbogi Þorgilsson á Skarði á Skarðsströnd, d. 1125, kona Ingvildur Hauksdóttir.
10. Snorri Húnbogason lögsögumaður á Skarði, d. 1170, kona Ingveldur Atladóttir Tannasonar.
11. Narfi Snorrason prestur á Skarði, d. 1202, kona Guðrún Þórðardóttir Oddleifssonar.
12. Skarðs-Snorri Narfason prestur, d. 1260, kona Sæunn Þorsteinsdóttir.
13. Narfi Snorrason prestur á Kolbeinsstöðum, d. 1284, kona Valgerður Ketilsdóttir lögsögumanns.
14. Snorri Narfason lögsögumaður á Skarði, d. 1332, kona Þóra ættuð úr Árnessýslu.
15. Ormur lögsögumaður (og hirðstjóri) á Skarði, kona Ólöf Jónsdóttir Sveinssonar í Hvammi.

16. Guttormur Ormsson í Þykkvaskógi, veginn 1381, kona Soffía Eiríksdóttir ríka á Möðruvöllum.
17. Loftur ríki (hirðstjóri) Guttormsson, d. 1435, kona Ingibjörg Pálsdóttir frá Eiðum. Fylgikona Kristín Oddsdóttir lögsögumanns lepps.
18. Skúli Loftsson sýslumaður í Húnavatnssýslu, kona Helga Þorleifsdóttir Árnasonar og Vatnsfjarðar-Kristínar.
19. Guðmundur Skúlason prestur á Melstað um 1450—1460. Fylgikona Guðrún Brandsdóttir lögmanns Jónssonar.
20. Skúli Guðmundsson sýslumaður í Húnavatnssýslu, kona Þórunn Marteinsdóttir bónda í Húnaþingi.
21. Bjarni Skúlason lögréttumaður á Álfgeirsvöllum, Skagafirði, kona Geirþrúður Sigvaldadóttir langalífs.
22. Hrólfur sterki Bjarnason lögréttumaður á Álfgeirsvöllum, kona Ingibjörg Bjarnadóttir frá Stokkseyri Torfasonar ríka í Klofa.
23. Bjarni yngri og illi lögréttumaður á Álfgeirsvöllum, f. 1566, d. 1654, kona Guðríður Þorsteinsdóttir.
24. Þorsteinn Bjarnason lögréttumaður á Álfgeirsvöllum, kona Guðrún Þorsteinsdóttir, d. 1688.
25. Hrólfur Þorsteinsson bóndi á Álfgeirsvöllum, kona Gróa Gunnlaugsdóttir, f. 1616, d. 1700.
26. Þorsteinn Hrólfsson bóndi á Álfgeirsvöllum, kona Guðfinna Jónsdóttir lögréttumanns Nikulássonar.
27. Gunnlaugur Þorsteinsson bóndi á Pottagerði og víðar, Kona Sigríður Einarsdóttir.
28. Hinrik Gunnlaugsson bóndi á Tunguhálsi, f. 1769, fyrri kona Katrín Sigurðardóttir bónda á Seilu Ólafssonar bónda í Huppahlíð Jónssonar og Málfríðar Bjarnadóttur smiðs á Svertingsstöðum Vilhjálmssonar sýslumanns á Þóroddsstöðum Arnfinnssonar prests á Stað. Móðir Málfríðar var Elín Eiríksdóttir frá Efranúpi. Börn Hinriks, Gunnlaugur, Hinrik.

29. Gunnlaugur Hinriksson hreppstjóri á Tunguhálsi, f. 1804, kona Rannveig (f. 1815, d. 1849) Skúladóttir bónda í Brekkukoti í Tungusveit Guðmundssonar bónda á Mælifelli Jónssonar (af Sölvatunguætt), kona Skúla Guðrún Jónsdóttir. Synir Gunnlaugs og Rannveigar voru Skúli, f. 13/11 1834; hann bjó á Stöpum á Vatnsnesi, kona Sesselja Jónsdóttir. Skúli drukknaði 1865. Börn: Jón fór til Ameríku. Gunnlaugur býr á Geitafelli.

Hinrik Gunnlaugsson, f. 8/2 1838, bjó stórbúi á Efranúpi í Miðfirði. Börn hans:

Gunnlaugur Jakob, Rannveig og Helga, fóru öll til Ameríku.

Björn í Reykjavík, ógiftur og barnlaus.

Utan hjónabands átti Hinrik 3 dætur Helgu Magdalenu, Jónínu og Magdalenu. Enn átti Gunnlaugur hreppstjóri eina dóttur Guðrúnu. Gunnlaugur fluttist búferlum frá Tunguhálsi um 1850 vestur að Stóra-Ósi í Miðfirði og giftist þar Helgu Arnbjörnsdóttur stúdents þar — ekkju Bjarna stúdents Thorarensen.

30. Guðrún f. 24/6 1838, d. 1880 Gunnlaugsdóttir, átti Jóhann á Haugi Ásmundsson frá Skeggjastöðum Björnssonar bónda á Bjargi í Miðfirði Björnssonar prests frá Mælifelli Jónssonar. Þeirra börn: Skúli f. 1862, Gunnlaugur f. 1867, Helga f. 1873, Ásmundur f.1875.

31. Ásmundur Jóhannsson frá Haugi, kona Sigríður Jónasdóttir bónda á Húki Guðmundssonar. Fóru til Ameríku. Bjuggu í Winnipeg, Canada.

# Ættartöluþættir Sigríðar Jónasdóttur

I.

1. Jónas Guðmundsson bóndi Húki f. 1. júlí 1838.
2. Guðmundur Guðmundsson bóndi Tannstöðum f. 3. júlí 1802.
3. Guðmundur Guðmundsson bóndi á Brekkulæk, svo Reykjum í Hrútafirði f. 1773.
4. Guðmundur Ólafsson Brekkulæk f. 1749.
5. Ólafur Vilhjálmsson Reynhólum f. 1710.
6. Vilhjálmur Ólafsson.
7. Ólafur Guðmundsson Bjargi f. 1636.

II.

1. Helga Stefánsdóttir f. 7. sept. 1851, giftist 5. okt. 1879 Jónasi Guðmundssyni I 1.
2. Stefán Arnbjörnsson bóndi Stóra-Ósi, svo Spena f. 13. okt. 1811.
3. Arnbjörn Árnason stúdent, bóndi Brekku í Þingi svo Stóra-Ósi f. 1776, d. 25. jan. 1835.
4. Árni Tómasson prestur Bægisá 1768—1788.
5. Tómas Tómasson.

III.

3. Sigurlaug Bjarnadóttir f. 2. febr. 1779, d. 3. júní 1835, giftist 2. okt. 1801 Arnbirni Árnasyni II. 3.
4. Bjarni launsonur Jóns Árnasonar skólaráðsmanns á Hólum.

5. Jón Árnason skólaráðsmaður Hólum.
6. Árni Þorsteinsson Bólstaðarhlíð f. 1693.
7. Þorsteinn Benediktsson sýslumaður í Bólstaðarhlíð d. 1. júlí 1697.
8. Benedikt Björnsson lögréttumaður í Bólstaðarhlíð og Klausturhaldari Reynistað.
9. Björn Magnússon í Bólstaðarhlíð.
10. Magnús Björnsson í Djúpadal.
11. Björn Jónsson officialis Melstað d. 7. nóv. 1550.
12. Jón Arason biskup að Hólum f. 1484, d. 7. nóv. 1550.
13. Ari Sigurðsson bóndi Grýtu.
14. Sigurður Jónsson príor Möðruvöllum.

IV.

4. Guðrún Skúladóttir móðir Sigurlaugar III. 3.
5. Skúli Björnsson Neðri-Mýrum í Refasveit f. 1723 — d. 7. maí 1785.
6. Björn Skúlason prestur Hjaltastöðum (prestur á Tjörn á Vatnsnesi 1729—1733, í Hofstaðaþingum 1734—1759 og áður í Hofstaðaþingum 1707).
7. Skúli Ólafsson Seylu, lögréttumaður.
8. Ólafur Bergþórsson djákni á Reynistað.
9. Bergþór Sæmundsson lögréttumaður í Skagafirði f. 1591, d. 1647.
10. Sæmundur Kársson prófastur Glaumbæ f. 1556, d. 1638.
11. Kár Sæmundsson.
12. Sæmundur Símonarson lögsagnari.
13. Símon Þorsteinsson lögréttumaður Leyningi.
14. Þorsteinn Brandsson bóndi Höfðahverfi á lífi 1464.

V.

7. Halldóra Halldórsdóttir kona Skúla Ólafssonar IV. 7.
8. Halldór Þorbergsson lögréttumaður og annálaritari á Seylu f. 1623, d. 1711.

9. Þorbergur Hrólfsson sýslumaður á Seylu f. 1573, d. 1656.
10. Hrólfur Bjarnason sterki lögréttumaður Álfgeirsvöllum.
11. Bjarni Skúlason lögréttumaður Álfgeirsvöllum og Geirþrúður Sigvaldadóttir langalífs.
12. Skúli Guðmundsson sýslumaður Húnavatnssýslu.
13. Guðmundur Skúlason prestur Melstað.
14. Skúli Loptsson sýslumaður í Húnavatnssýslu.
15. Loptur Guttormsson ríki sýslumaður og riddari á Möðruvöllum.
16. Guttormur Ormsson Þykkvaskógi í Dölum.
17. Ormur Snorrason lögmaður hirðstjóri Skarði á Skarðsströnd.
18. Snorri Narfason lögmaður Skarði d. 9. marz 1332.
19. Narfi Snorrason prestur Kolbeinsstöðum d. 1284.
20. Skarðs-Snorri Narfason prestur Skarði d. 13. sept. 1260.
21. Narfi Snorrason prestur Skarði d. 1202.
22. Snorri Húnbogason prestur og lögsögumaður Skarði d. 1170.
23. Húnbogi Þorgilsson Skarði.
24. Þorgils Gellisson, drukknaði ungur á Breiðafirði.
25. Gellir Þorkelsson Helgafelli d. 1073 í Hróarskeldu.
26. Þorkell Eyjólfsson Helgafelli, druknaði 1026.
27. Eyjólfur Þórðarson grái, skírður gamall árið 1000.
28. Þórður gellir er fyrstur setti fjórðungsþing, d. 965.
29. Ólafur feilan í Hvammi í Hvammssveit.
30. Þorsteinn rauður konungur í Skotlandi.

Í Heimskringlu rekur Snorri þennan karllegg til Ynglinga.

VI.

2. Arndís Guðnadóttir f. 1815, giftist 25. júní 1841 Stefáni Arnbjörnssyni II. 2.
3. Guðni Magnússon bóndi Hlaðhamri f. 1775.
4. Magnús Bjarnason ríki hreppstjóri Kolbeinsá f. 1740.

5. Bjarni Pétursson Brekku í Bitru*).
6. Pétur Guðmundsson*).
7. Guðmundur Ólafsson úr Saurbæ í Dalasýslu*).

VII.

5. Arndís Hallsdóttir f. 1698, átti Bjarna VI. 5.
6. Hallur Guðnason Miðdalsgróf f. 1662.
7. Guðni Jónsson Skálholtsvík**).
8. Jón Bjarnason Kolbeinsá.

VIII.

6. Hólmfríður Teitsdóttir f. 1670, átti Hall Guðnason VII. 6.
7. Teitur Einarsson prestur Bitruþingum, d. 1695.
8. Einar Sigurðsson prófastur Stað í Steingrímsfirði d. 1670.
9. Sigurður Einarsson prófastur Breiðabólstað d. 1639.
10. Einar Sigurðsson prófastur Eydölum f. 1539, d. 1626.
11. Sigurður Þorsteinsson prestur Grímsey.
12. Þorsteinn Nikulásson.
13. Nikulás Þormóðsson príor Möðruvöllum.

---

*) Ættartölur Espólíns 4487.

**) Prestatal Prestsbakka framan við ministeríalbók Prestsbakka 1816.

# Ágrip af niðjatali séra Bjarna á Mælifelli, Jónssonar

Séra Bjarni var fæddur í fjósi að Álftavatni í Staðarsveit árið 1734. Séra Ólafur Jónsson móðurbróðir hans, skírði hann á laun, og misti fyrir það prestskap. Bjarni komst ungur til Bjarna Halldórssonar sýslumanns á Þingeyrum, sem kom honum í Hólaskóla. Var hann þar 5 vetur, og útskrifaðist þaðan. Vígðist svo aðstoðarprestur að Breiðabólsstað í Vesturhópi 1758, fékk Undirfell í Vatnsdal 1759, en Mælifell í Skagafirði árið 1767. Dó hann þar 75 ára gamall árið 1809, hafði hann þá þjónað alls 51 ár prestur. Hann var skáld gott, og sagnfróður maður.

Séra Bjarni var þríkvæntur:

1. Kona Guðrún Þorkelsdóttir, prests í Fagranesi. Hjónabandið barnlaust.

2. — Sigríður Jóhannsdóttir prófasts Kristjánssonar. Þeirra börn:

| | |
|---|---|
| 1. Agnes | 4. Sigríður |
| 2. Sigþrúður | 5. Bjarni |
| 3. Valgerður | 6. Guðrún |

3. — Sigurlaug Árnadóttir, frá Nautabúi í Tungusveit. Þeirra börn:

| | |
|---|---|
| 1. Brynjólfur | 4. Sigríður |
| 2. Sólveig | 5. Jóhann |
| 3. Margrét | |

*I. Agnes Bjarnadóttir og afkomendur*

Agnes átti Gísla prest á Hafsteinsstöðum, Oddssonar prests á Miklabæ, Gíslasonar biskups Magnússonar. Þeirra börn:

1. Bjarni prestur Gíslason á Söndum í Dýrafirði. Kona hans var ekkja eftir Hákon prest sama staðar. Þeirra sonur:

A. Hákon Bjarnason, kaupmaður á Bíldudal, drukknaði við Mýrdalssand. Kona: Jóhanna Kristín Þorleifsdóttir, prófasts í Hvammi í Dölum. Þeirra börn:

a. Lárus H. Bjarnason prófessor. Kona: Elín Pétursdóttir amtmanns Hafsteins (alsystir Hannesar Hafstein). (Börn).

b. Ágúst prófessor Bjarnason. Kona: Sigríður, dóttir Jóns skálds og ritstjóra Ólafssonar. (Börn).

c. Þorleifur adj. Bjarnason. Fyrri kona þýzk, 1 barn. Síðari kona Kristrún Ísleifsdóttir frá Arnarbæli. (Börn).

d. Brynjólfur H. Bjarnason, kaupmaður. Fyrri kona: Ragnheiður Zoega. Þau áttu 1 son. Skildu og fór hún til Ameríku með barnið. Seinni kona: Steinunn frá Úthlíð, barnlaus.

e. Ingibjörg H. Bjarnason, forstöðukona Kvennaskólans í Reykjavík, og þjóðkjörinn þingfulltrúi, ógift.

*II. Sigþrúður Bjarnadóttir og afkomendur*

Sigþrúður átti Pétur prófast í Stafholti í Borgarfirði. Þeirra börn:

A. Arndís Pétursdóttir. Átti Friðrik Eggerz, prest í Akureyjum. Þeirra börn:

1. Sigþrúður, varð síðari kona Jóns Péturssonar háyfirdómara. Þeirra börn:

a. Sturla Jónsson, kaupmaður í Reykjavík, barnlaus.

b. Friðrik Jónsson, sama staðar. Kona og börn.

c. Arndís, gift Guðmundi héraðslækni í Stykkishólmi.
d. Þóra, átti Jón Magnússon, forsætisráðherra Íslands, barnlaus.
e. Sigríður, átti Geir Sæmundsson, vígslubiskup á Akureyri (börn).
2. Pétur Friðriksson Eggers, kaupfélagsstjóri á Borðeyri. Fyrri kona: Jakobína Pálsdóttir Melsted. Þeirra börn:
a. Páll, átti dóttur séra Sigurðar Sívertsen, á Útskálum, fór til Ameríku.
b. Pétur } dóu ungir.
c. Friðrik }
d. Elinborg, átti Kristján Hall, verzlunarmann. Eitt af börnum þeirra, Ragnh., kona Einars Jónassonar, sýslumanns Barðstrendinga.
e. Arndís, átti Pál prófast Ólafsson í Vatnsfirði, og mörg börn.
Síðari kona Péturs Eggerz var Sigríður Guðmundsdóttir, bónda á Kollsá. Þeirra börn:
f, Sigurður Eggerz, fyrrverandi ráðherra og alþingismaður. Kona Solveig Kristjánsdóttir, Jónssonar, háyfirdómara.
g. Guðmundur, fyrrverandi sýslumaður í Suður-Múlasýslu, kona dönsk.
h. Ragnhildur, gift Ólafi Thorlacius, lækni á Djúpavogi (börn).
i. Sólveig kona Stefáns prests á Völlum í Svarfaðardal.
í. Ingibjörg, kona Magnúsar Blöndals, prests í Vallanesi.
3. Elinborg Friðriksdóttir Eggerz, átti Pál stúdent Vídalín í Víðidalstungu. Þeirra börn:
a. Jón Vídalín, konsúll, átti Helgu Bryde, stórkaupmanns í Kaupmannahöfn, barnlaus.
b. Páll Vídalín, giftist og átti börn.
c. Arndís — giftist ekki — barnlaus.
d. Kristín, átti Jón Jakobsson, landsbókavörð. Þeirra dóttir Helga, giftist til Noregs.

## *III. Valgerður Bjarnadóttir og afkomendur*

Valgerður Bjarnadóttir átti Björn Sigurðsson, prest í Hítarnessþingum. Þeirra börn:

A. Jóhann, prestur í Keldnaþingum, barnlaus.
B. Sigríður, átti fyr Odd lækni Hjaltalín, síðar Kára Konráðsson.
D. Margrét, átti Ásmund Þórðarson, prests í Hvammi í Norðurárdal. Þeirra börn:
Björn hreppstjóri á Svarfhóli í Stafholtstungum. Kona: Þuríður Jónsdóttir. Þeirra börn:
a. Jóhann hreppstjóri á Akranesi, giftur og átti börn.
b. Jón kaupmaður í Borgarnesi, kona: Ragnhildur Jónsdóttir frá Sólheimatungu.
c. Helga, kona Jóns Björnssonar, kaupmanns í Borgarnesi.
d. Málfríður, kona Einars Hjálmssonar frá Þingnesi.
e. Jósef, bóndi á Svarfhóli, giftur.
f. Kristján bóndi á Steinum í Stafholtstungum, giftur.
g. Guðmundur, sýslumaður í Borgarnesi. Kona: Þóra Júlíusdóttir, læknis Halldórssonar, mörg börn.

## *IV. Sigríður Bjarnadóttir og afkomendur*

Sigríður Bjarnadóttir átti Jón hreppstjóra Jónsson, Pálssonar frá Hvammi í Vatnsdal; bjuggu á Kornsá. Þeirra börn:

A. Sigurlaug, kona Jónasar bónda Guðmundssonar. Þeirra börn:
1. Bjarni, átti Björgu Jónsdóttur frá Háagerði; þau skildu; Bjarni fór til Ameríku; þeirra dóttir:
a. Halldóra Bjarnadóttir, kennslukona.
2. Halldóra, átti Halldór Þorláksson, prests frá Undirfelli. Halldór dó ungur, en Halldóra fór til Ameríku.
3. Bogi, smiður, átti Þorbjörgu Steingrímsdóttur, Pálssonar, prests á Undirfelli. Þeirra börn:

a. Rannveig, fór til Ameríku; átti áður barn með Guðmundi Jóhannssyni á Torfustöðum, — Ágúst, smið á Hvammstanga.

4. Guðmundur, bóndi í Ási, kona Ingibjörg Markúsdóttir. Þeirra einbirni:

a. Sigurlaug, kona Guðmundar Ólafssonar, alþingismanns í Ási í Vatnsdal. Þau barnlaus.

## *V. Bjarni Bjarnason og afkomendur*

Bjarni Bjarnason, bóndi á Bjargi í Miðfirði; átti Helgu Ólafsdóttur frá Haukagili. Þeirra börn:

A. Ásmundur, bóndi á Skeggjastöðum. Kona: Magdalena Guðmundsdóttir frá Neðri-Fitjum (af Rauðbrotaætt). Þeirra börn:

1. Guðmundur, bóndi í Litlutungu, kona: Hólmfríður Einarsdóttir. Þeirra son:

a. Guðmundur, bóndi í Tjarnarkoti; kona: Kristveig Sigvaldadóttir. Þeirra börn:

Jóhannes, Kjartan, Sigvaldi, Hólmfríður, Margrét.

2. Jóhann, bóndi á Haugi; fyrri kona: Guðrún Gunnlaugsdóttir frá Tunguhálsi, hreppstjóra Hinrikssonar (Hrólfsætt). Þeirra börn:

a. Skúli, kona Guðrún Sigurðardóttir Hjaltalín. Þau fóru til Ameríku. Þeirra son: Jóhann Adolf.

b. Gunnlaugur, kaupmaður í Winnipeg í Ameríku. Þrígiftur. Börn:

Guðrún, Gunnlaugur Haraldur Páll.

c. Helga, fór til Ameríku og giftist þar; átti einn son. Hann féll í hernaði ungur.

d. Ásmundur Pétur, smiður og byggingameistari í Winnipeg. Kona: Sigríður Jónasdóttir frá Húki í Miðfirði. Þeirra börn:

Jónas Valdimar, Kári Wilhelm, Grettir Leó.

Síðari kona Jóhanns var Arndís Halldórsdóttir kirkjusmiðs frá Litlugröf. Þeirra son: Halldór, fyrrverandi bóndi á Haugi, — nú búsettur á Hvammstanga. Kona: Guðrún Jónasdóttir, frá Reykjum í Miðfirði.

3. Ásmundur Ásmundsson frá Skeggjastöðum. Giftur Guðnýju Bjarnadóttur frá Núpdalstungu. Þau áttu tvö börn, er bæði dóu ung.

B. Ragnheiður Bjarnadóttir, átti Sæmund Ólafsson bónda á Einifelli í Stafholtstungum. Þeirra börn:

1. Elín, tvígift, átti 2 dætur, sína með hvorum manni sínum; fór með þær til Ameríku.
2. Bjarnhéðinn, bóndi í Böðvarshólum. Kona: Kolfinna Snæbjarnardóttir, Snæbjarnarsonar prests í Grímstungu, Halldórssonar Hólabiskups. Þeirra börn:

a. Bríet, átti Valdimar Ásmundsson ritstjóra. Þeirra börn:

1. Héðinn, Cand, polit., og alþingismaður. Kona Gyða Eggertsdóttir, Briem frá Viðey.
2. Laufey, stúdent.

b. Sæmundur, prófessor, læknir í Reykjavík. Kona: Christophine, dönsk. Þeirra börn:
Gerður, í læknaskólanum.

c. Guðrún, átti Magnús þjóðhagasmið Halldórsson á Halldórsstöðum í Laxárdal, Þingeyjarsýslu. Þeirra börn:

1. Bergþóra, kona Hallgríms Þorbergssonar, bónda á Halldórsstöðum (börn).
2. Kolfinna, kona Torfa Hjálmarssonar, Jónssonar, og Áslaugar Torfadóttur frá Ólafsdal.

d. Bjarni Bjarnhéðinsson, var lengi við verzlun á Hvammstanga. Kona: Kristín Guðmundsdóttir frá Þorkelshóli. Sonur Bjarna og Ágústu Andrésdóttur: Haraldur.

c. Ingibjörg Bjarnadóttir, átti Einar Ólafsson. Bjuggu á Urriðaá. Þeirra börn:

1. Sigurrós, átti Guðmund Jónsson, bónda á Urriðaá. Þeirra börn:

a. Rósmundur, bóndi á Urriðaá. Kona: Guðrún Þórðardóttir. Þeirra börn:
Þuríður, gift Karli Kristjánssyni; Guðmundur.
b. Ingibjörg, giftist Benedikt Guðmundssyni Bjarnasonar, fóru til Ameríku.
c. Ólafur, bóndi á Þóreyjarnúpi; dætur hans og Margrétar Jónsdóttur, Jónína og Ragnheiður.
2. Eybjörg, giftist Eggert Eggertssyni á Hvoli (börn).
D. Sigurbjörg Bjarnadóttir, giftist Birni Illugasyni, bónda á Kollufossi. Þau fóru til Ameríku.
E. Sigríður Bjarnadóttir, giftist Bjarna Guðmundssyni frá Aðalbóli; þau bjuggu á Bjargi. Þeirra börn:
1. Guðmundur, átti Ingibjörgu Benediktsdóttur frá Aðalbóli. (Þau systkinabörn). Þeirra börn:
a. Benedikt. Sjá hér á undan.
b. Guðmundur, átti Oddnýju Jónsdóttur, ættaða af Suðurlandi. Þau fóru til Ameríku; börn þeirra, sem urðu hér eftir:
1. Axel, bóndi í Valdarási. Kona: Guðrún Guðmundsdóttir frá Hvarfi í Víðidal (börn).
2. Ingibjörg, gift Sigurði bónda Jónssyni á Tjörn á Vatnsnesi; mörg börn.
c. Bjarni, átti Ingibjörgu Benediktsdóttur frá Bjargarstöðum. Þau fóru til Ameríku.
d. Sigríður, fór ógift til Ameríku.
2. Helga giftist Birni Jónssyni á Barkarstöðum, bjuggu þar lengi stórbúi. Þeirra börn:
a. Margrét, giftist Jóni Sigfússyni frá Rófu. Þeirra börn: Björn og Vigdís.
b. Benedikt, bóndi á Barkarstöðum, giftur Jennýju Sigfúsdóttur frá Rófu. Þeirra börn:
Baldur, Birna, Ragnar, Börkur.
3. Benedikt, giftist ekki, og átti ekki börn.
F. Benedikt Bjarnason, bóndi og hreppstjóri á Aðalbóli. Kona: Margrét Guðmundsdóttir. Þeirra börn:

1. Bjarni, dó ungur; var trúlofaður Margréti Bjarnadóttur frá Núpdalstungu.
2. Sigurður, átti konu ættaða af Suðurlandi; fóru til Ameríku.
3. Margrét, átti Sigvalda Símonarson, frá Króksstöðum; fóru til Ameríku með börn.
4. Ingibjörg, giftist Guðmundi Bjarnasyni (sjá hér að framan). Dóttir hennar og Þorsteins smiðs Hjálmarssonar, er Margrét, gift Jónasi Jónassyni. Bjuggu í Hlíð á Vatnsnesi. Þeirra börn:
Páll, Þorsteinn, Þorvaldur, Jón, Gróa o. fl.
5. Helga, giftist Ólafi Sigmundssyni frá Barkarstaðaseli; fluttu til Ameríku.

G. Helga Bjarnadóttir, giftist Guðmundi Eggertssyni bónda í Sólheimatungu í Borgarfirði. Þau barnlaus.

H. Ingigerður Bjarnadóttir, átti Níels Þórðarson. Þeirra börn:

1. Rósa, átti 2 sonu með Þorláki Bjarnasyni.
a. Jón, á Önnu Jónsdóttur (mörg börn).
b. Bjarni, bóndi í Kirkjuhvammi, giftur.
Ennfremur átti Rósa börn með Guðmundi, nefndum „ekkjustólpa“, og Jóni Jónssyni í Króki.
2. Sigurlaug, giftist Sigurbirni Bjarnasyni, síðast á Geitlandi. Þeirra börn:
a. Björn Konráðs, í Hafnaðarfirði; tvígiftur (börn).
b. Kári, prýðilega hagorður, dó ungur.
c. Gunnlaugur, átti Agnesi Magnúsdóttur, frá Torfustöðum ytri, börn.
d. Bjarni.
3. Valgerður, gift Daníel Gestssyni á Hvammstanga. — Mörg börn.

I. Ólafur Bjarnason.

J. Bjarni Bjarnason.

K. Jóhann Bjarnason.

### *VI. Guðrún Bjarnadóttir og afkomendur*

Guðrún Bjarnadóttir átti Pál prest á Undirfelli, Bjarnason prests á Melstað. Þeirra börn:

A. Jón, dó ungur.
B. Steinunn, giftist Ólafi Jónssyni, annáluðum söngmanni. Þeirra börn:
1. Páll hreppstjóri á Akri; kona: Guðrún Jónsdóttir, prests í Otrardal. Þeirra börn:
a. Ingibjörg, kona Kristjáns bónda Sigurðssonar á Reykjum á Reykjabraut. Börn.
b. Ingunn, átti Halldór Bjarnason á Akri, börn.
c. Ólafur lögfræðingur í Kaupmannahöfn. Kona dönsk.
d. Bjarni prófastur í Steinnesi. Kona: Ingibjörg Guðmundsdóttir frá Ási í Skagafirði. Þeirra börn: Páll lögfræðingur í Reykjavík, Jón héraðslæknir í Borgarfirði, Ólafur bóndi í Brautarholti, Ingibjörg, kona Jónasar læknis Rafnars á Akureyri og mörg fleiri.
e. Steinunn, átti Guðjón bónda Jónsson á Leysingjastöðum. Börn.

### *VII. Brynjólfur Bjarnason og afkomendur*

Brynjólfur Bjarnason, prestur í Miklaholti. Kona: Guðríður Gísladóttir prests Jónssonar í Stærri-Árskógi. Þeirra börn:

A. Sigurlaug, átti Björn bónda Konráðsson. (Sjá um börn þeirra hér síðar).
B. Konráð Brynjólfur, söðlasmiður.

### *VIII. Sólveig Bjarnadóttir og afkomendur*

Sólveig átti Einar bónda Þórðarson í Stafholtsey og Hjarðarholti í Borgarfirði. Börn þeirra:

a. Guðmundur bóndi á Kollsá í Hrútafirði. Kona hans: Helga Jakobsdóttir. Börn:

1. Sólveig, átti Ásgeir bónda Jónsson á Stað í Hrútafirði. Þeirra börn: Búi, Guðmundur, Pétur, Ásgeir, Helga, Arndís, Þorsteinn og Jón o. fl.
2. Sigríður, átti Pétur Eggerz. Sjá að framan.
3, Ingibjörg.
4. Jakob. Fluttust bæði til Ameríku.

B. Skarphéðinn bóndi á Hvoli í Vesturhópi. Kona: Ingibjörg Einarsdóttir, prests á Stað í Hrútafirði. Mörg börn.

C. Bjarni bóndi á Hóli í Norðurárdal; hans son: Vigfús hreppstjóri í Dalsmynni. Allir þessir þrír bræður voru miklir gleðimenn, og afburða hestamenn.

Aftur giftist Sólveig Bjarnadóttir séra Búa Jónssyni á Prestsbakka í Hrútafirði.

### *IX. Margrét Bjarnadóttir og afkomendur*

Margrét giftist Konráð Konráðssyni, bróður Gísla Konráðssonar, sagnfræðings. Þau bjuggu á Rauðkollsstöðum og Breiðabólstað í Sökkólfsdal, síðast í Bjarnarhöfn. Börn þeirra:

A. Kári, átti frændkonu sína Sigríði Björnsdóttur prests í Hítarnesi, ekkju Odds læknis Hjaltalín.

B. Brynjólfur, átti Guðrúnu Samsonardóttur.

C. Björn bóndi og skáld á Fáskrúðarbakka og víðar. Kona: Sigurlaug Brynjólfsdóttir prests Bjarnasonar í Miklaholti, þau voru systkinabörn. (Sjá að framan). Meðal barna þeirra voru:

1. Sigurbjörn, síðast í Geitlandi, giftur Sigurlaugu Níelsdóttur. (Sjá hér að framan).
2. Bjarni, bóndi á Neðra-Vatnshorni í Línakradal. Ágætlega skýr maður og prýðilega skáldmæltur. Kona: Ingibjörg Skarphéðinsdóttir, frá Hvoli. Þeirra börn:

a. Skarphéðinn, kona: Sigurlaug Hansdóttir. Búa á Hvammstanga.

b. Herdís, átti Sigurð M. Skagfjörð. Þau skildu. Áttu 3 sonu.

Með síðari konu sinni, Soffíu Jóhannsdóttur, átti Bjarni:

c. Kára, fór til Ameríku.
d. Björn.
e. Frú Ingibjörgu, móður séra Braga Friðrikssonar, prests að Lundar (Lundum), Man. Canada.

### *X. Sigríður yngri Bjarnadóttir*

Sigríður yngri giftist Jóni Jónssyni á Kálfsstöðum í Skagafirði.

### *XI. Jóhann Bjarnason*

Jóhann bjó á Kaðalstöðum í Borgarfirði. Kona hans var Kristín Oddsdóttir prests á Reynivöllum. Jóhann dó ungur, þó áttu þau börn, og eru afkomendur þeirra: Tómas bóndi á Kollsá, Búi bóndi á Litlu-Hvalsá og fleira fólk.

# Afkomendur Sigríðar frá Reykjum í Hrútafirði

1. Ólafur Vilhjálmsson bóndi á Bjargi í Miðfirði, kona Málfríður Teitsdóttir lögréttumanns á Efranúpi Eiríkssonar (af hinni stóru og merku Geitaskarðsætt).
2. Guðmundur f. 1746 Ólafsson bóndi á Brekkulæk, kona Þórey f. 1744 Ólafsdóttir bónda í Huppahlíð og Málfríðar Bjarnadóttur, f. 1660 þjóðhagasmiðs á Svertingjastöðum Vilhjálmssonar sýslumanns á Þóroddsstöðum Arnfinnssonar prests á Stað í Hrútafirði. Móðir Málfríðar Bjarnadóttur var Elín Eiríksdóttir, systir Teits á Efranúpi. Börn Guðmundar og Þóreyjar: Guðmundur f. 1773, Sæunn f. 1771, Margrét f. 1782.
3. Guðmundur f. 1773 Guðmundsson, dáinn 1847, bóndi á Fögrubrekku og Reykjum í Hrútafirði, kona Sigríður f. 1779 Jónsdóttir f. 1730 bónda á Bjargi Guðmundssonar og Hólmfríðar f. 1744 Guðbrandsdóttur Arasonar illa bónda á Fitjum.
   Systkini Sigríðar á Bjargi voru: 1. Guðbrandur f. 1769 bóndi á Syðri-Völlum, 2. Ingibjörg f. 1767, 3. Ari (var geðveikur), 4. Jón f. 1772, 5. Elísabet f. 1783, 6. Guðmundur f. 1771, átti Halldóru Jónsdóttur lögréttumanns Hafliðasonar. Bjuggu á Reykjum í Miðfirði; eitt þeirra barn, Hafliði bóndi á Neðranúpi.
   Börn Guðmundar og Sigríðar á Reykjum: 1. Guðmundur, 2. Jón, 3. Ólöf, 4. Stefán, 5. Sigmundur, 6. Aron, 7. Sigríður 8. Daníel, 9. Jónadab.
4. Guðmundur f. 1802 Guðmundsson bóndi á Tannstöðum, kona Þorbjörg f. 1799 Jónsdóttir. Þeirra börn: 1. Ólöf, 2. Guðmundur, 3. Sigríður, 4. Elín, 5. Agnes, 6. Guðbjörg, 7. Jónas, 8. og 9. tveir Jónar dóu ungir.

5. Jónas f. 1/7 1838 Guðmundssonar bónda á Tannstöðum. Ólst upp hjá ömmu sinni Sigríði á Reykjum, kona Helga Stefánsdóttir. Bjuggu á Húki. Þeirra börn: Jónas, Sigríður, Stefán og Arndís. Jónas Jónasson frá Húki átti fyr Svanborgu. Þeirra barn: Sigurður lögfræðingur í Reykjavík. Jónas og Svanborg skildu. Hann fór til Ameríku, giftist aftur.

Stefán Jónasson bóndi á Húki, kona Kristín Kristmundsdóttir, eiga börn.

Arndís Jónasdóttir bónda á Húki, giftist Jónasi bónda á Oddsstöðum Þorsteinssonar frá Hrútatungu og Ólafar frá Tannstöðum. Þau voru systkinabörn.

6. Sigríður Jónasdóttir bónda á Húki gift Ásmundi P. Jóhannssyni frá Haugi í Miðfirði Ásmundssonar bónda á Skeggjastöðum Bjarnasonar bónda á Bjargi Bjarnasonar prests frá Mælifelli Jónssonar.

# Afkomendur Guðmundar og Sigríðar á Reykjum

2. Jón f. 1806 Guðmundsson frá Reykjum, kona Ingibjörg f. 1806 Halldórsdóttir frá Syðsta-Hvammi. Börn Guðrún f. 1843, Guðrún yngri f. 1848, Magnús f. 1850.
3. Ólöf f. 1808 Guðmundsdóttir, barnlaus.
4. Sigmundur f. 1814 Guðmundsson bóndi í Barkarstaðarseli, kona Helga f. 1823 Ólafsdóttir.
   Guðmundur f. 1842 Sigmundsson bóndi á Litlu-Þverá, kona Margrét Jónsdóttir hreppstjóra á Barkarstöðum Björnssonar. Þeirra börn: Guðmundur, kvæntist og fluttist suður til Reykjavíkur; Ingibjörg, átti Jóhann Kristófersson á Aðalbreið. Þeirra börn: Guðmundur; Sigurbjörn, átti Ólafíu Ólafsdóttur á Bessastöðum, eru í Hafnarfirði, eiga börn. Helga Guðmundsdóttir, átti Jakob Þórðarson á Spena, börn.
   Jón bóndi á Litlu-Þverá, giftist og átti börn.
   Sveinn býr á Litlu-Þverá.
   Sigríður giftist Sveinbirni Benediktssyni á Bjargastöðum, eiga börn.
   Ólafur f. 1850 Sigmundsson, kvæntist, fór til Ameríku, börn.
5. Aron f. 1816, kona Guðrún, barnlaus.
6. Sigríður f. 1819 Guðmundsdóttir frá Reykjum, giftist Jónatan smið Halldórssyni, bjuggu á Tannstöðum. Þeirra börn: Sigríður f. 1858, Sigurrós f. 1860.
7. Daníel f. 1823 Guðmundsson frá Reykjum, kona Salome f. 1831 Guðmundsdóttir bónda á Oddsstöðum. Þeirra börn: Guðrún f. 1862,Sigríður f. 1865, Salome f. 1867, Guðmundur f. 1869, Stefán f. 1872.

